var Løgspekingar/setti fram eina Spurning/freistade hans z sagde/Meistare/
Huert er þad ædsta Bodord j Løgmalenu? Þa sagde Jesus til hns/Þu skallt
elska Drottenn þinn Gud af øllu Hiarta þijnu/af allre Ønd þinne/aþ øllu þijnu
Hugskote/Þetta er þad þyrsta og ædsta Bodord. Þad annad er þessu lijkt/ elska
skalltu þinn Naunga so sim sialfan þig/ j þessum tueimur Bodordum er jnne falled allt Løgmaled z Spamennerner.

Og er Pharisearner voru nu til samans komner/ spurde Jesus þa ad z sagde/ Huad lijst ydur vm Christum? Hu-
ers Son hann sie? Þeir søgdu til hans/ Dauids. Hann sagde til þeirra/huørnen kallar Dauid hann þa j Anda einn Drottenn? Þar hann so seiger/ Drotten sagde til mijns Drottins/ Set þig til minnar hægre Handar/þangad til eg fæ lagt Ovine þijna til Fotskarar þinna Fota? Fyrst Dauid kallar hann sinn Drotten/ huørnen er hann þa hans Sonur?

Og eingen kūñe ad ſuara honum eínu
Orde/ Ei helldur þorde nockur fra þm
Deige hañ framar meir ad ſpyria.

ÞEſſe Gudſpiallſins Texte/hañ hefur
þær ſierleguſtu og agiætuſtu Spurn-
ingar jñe ad hallda/ſem vt af Heilagre
Ritníngu kūña frāṁ ad ſetiaſt/ og all-
eina eru til Sæluhialparennar naudſyn-
legar/ Su fyrſta Spurníng er Phariſe-
aña/ Þa adra frāmſette vor Herra Je-
ſus Chriſtus.

Phariſearner af eínu vondu Hiarta
og ſtorre Heipt er þeir hőfdu til Chriſt-
um/ſettu frāṁ eína Spurníng vm Lőg-
mæled/og ſpurdu Jeſum ad/huőrt þar
være þad yppaſta Bodord j Lőgmæle-
nu/Hier med meinande/ad fyrſt þ Chriſ-
tus avījtade Phariſeana/ huőrier epter
Lőgmælenu lifa þottuſt / og þar med
jnnſette ſkījrnar Embætte/ vm huőrt
Lőgmæled alls eckert talar/ þa meintu
þeir/ad hañ munde eitt huőrt þad And-
ſuar giefa/ſiñ j mote Moyſes lőgmæle
være/ huar fyrer þeir mættu klaga hañ
og Lījfe ſuipta.

Vor Drotten Jeſus Chriſtus/ſtaan-
de aum-

de aumur a þm ſtora Blindleika Phariſ-
ſeana/ hn ſpurde þa ad/ huória Mein-
ing þeir hefde vm CHRJSTVM/ og
huórs Son han ſkyllde vera/ hier med
leitande ad tilefne/ huar med hn feinge
þeim kient og vnderuijſad med Ritning-
unne/ huória Meining þeir hafa ſkyllde
vm Chriſtum/ þ er/ vm þan/ ſem Gud
hafde Fyrerheited og lofad Adam/ A-
braham ꝛ ódrum Heilógum Forfedrū/
Helmenum til Saluhialpar/ Enn ſo ad
vier þeſſ Betur mættum oſſ til nytſemd-
ar og Saluhialpar vnderuijſunar færa
þeſſar Spurningar/ vm Lógmaled/ og
Chriſtum/ þa vil eg fram̄ ſetia þriar
Lærdoms Greiner/ og ſijdan eina epter
adra med Guds vilia klarlega vtleggia.

I.

Fyrer huoria Sok ad Phariſearner
aſtundudu ſo miog ad fyrerkoma Jeſu/
og huilijkt Kapp þeir hoꝛdu þar a.

II.

Sa annar Lærdomur ſkal vera vm
Logmaled/ og vm Logmalſins riettann
Skilning og Vnderſtodu/ og huar til
þad er nytſamlegt.

## III.

Hinn þridie Lærdomur skal vera/ vm Christum/ huilijkan oss byriar hann ad hafa og hallda/ og huornen vier sælum ad audlast j hans Nafne þa eilijfu Sæluhialp.

# Sa þyrste Lærdomur.

Gydingarner/ sierdeilis þeir Pharisei/ höfdu ætijd kapp ꝯ astundan þar a/ ad þeir mætte fa Jesum veiddan j hans Ordum/ so þeir mættu fyrerkoma hön=num. Merk hier j fyrstu olijk Hiörtu/ er Christus ꝯ þesser Pharisei höfdu huör=er til añara. Jesus astundade/ ad hial=pa þeim fra þeirra Syndum/ so þeir yrde Sæluhialpleger/ Eñ Pharisearner sætu vm ad veida hañ j hans Ordum/ so þeir mættu klaga hañ/ og koma hö=num af Dögum. Soddan vanart finst eñ nu med mörgum (þui verr) sem þa hara/ ofsækia/ er þeim gott giöra/ og þa leida vilia til Sæluhialpariñar.

Enn huar af kom nu þetta Hatur Phariseaña j giegn Christo? Af þui ad hañ straffade þeirra storar og margfal=legar

legar Synder/ sem var þeirra Drambs-
seme/Ofmetnadr/Hræsne/Agirne/Vill-
ur/og rangar Kienïngar.

Ofmetnadar meñ + Drambsamer/
hafa þessa vanart/ ad þeir vilia vera
ostraffader/Og ef nöckur hefur vilia til
ad skierda eda minka þeirra Metord/
Heidur og hættaktada Meining sem þr
hafa vm sialfa sig/ þann ofsækia þeir
af allre Magt/ Þar fyrer er ei Vndur/
þott þesser Metnadarsömu/+ Hofmod-
ugu Phariseär hafe hatad Christum/
huör ed med jafnade sette þeim fyrer
Naser þeirra jlla lyktande Hofmod og
Drambseme/ eñ þr eige huxudu þar vm
ad hañ þeim til Besta/og til Sæluhial-
par þetta giörde,

Hræsnarar/ þad eru þeir/ sem læt-
ast vera riettlæter fyrer Gude + Mönñ/
eñ eru þo fuller hid jnnra/af Illsku og
fvlum Syndum/Ja/ ei olijker pryddū
og mæludum Gröfum/sem þo eru full-
ar jñan til af Eitre og andstyggelegum
Saurindum/ slijker lyda ecke/ ef nöckur
seiger þa syndara ad vera/ og fordæm-
da fyrer saker þra andstyggelegu Syn-
da. Þar fyrer villdu þesser Hræsnarar/

D. fyrer

fyrer önguan mun giefa Jesu Christo þa Æru/ ad hañ eiñ være riettlætur/ og ad aller þeir sem vilia riettlæter verda/ þr hliote þad ad ódlast af vorum Herra Jesu Christo. Þar fyrer seiger Christur til þeirra/ Math. 21. Cap. Tollheim-tumeñ og skiækiur/ skulu fyrer ydur inn ganga j Himerijke/ Huar fyrer? Þuiad Hræsnarar þikiast ei vera syndugier/ og treysta þui vppa þeirra eigenligt Riett-læte/ huórt þeir þo ei hafa/ Enn Toll-heimtumeñ og Skiækiur/ vita sig synd-uga ad vera/ og eckert Riettlæte hafa huar vppa þeir kuñe sig ad forlæta/ þar fyrer/ Nær þsi hattar Meñ heyra Syn-dena straffast/ vidurkieña þeir sig langt vm snarara/ enn þeir Hræsnarar/ ⁊ ver-da glader vid þa Nadareñar predikun/ giöra sydan jdran/ ⁊ læta af liotū Syn-dum vmuenda sier til Guds fyrer Tru-na a Jesum Christum/ og giöra anöþt Truareñar/ Epterdæme hófū vier/ Luc. 18. Cap. Þess Tollheimtu Mans sem stod vtar j Mustierinu/ og þess Pharise-arans sem hrosade sier af sijnu Riettlæ-te/ lijka eirnen Luc. 7. Cap. Af Sime-one/ sem Herranum hafde til Mæltijd-

ar jñ

ar jnn Boded / ꝛ þeirre ber ſyndugu Kuin-
nu ſem þuode Herrans Fætur med ſijnū
Tarum / og þurkade þa med ſijnu Hare.

Agirnd hefur og þeſſa vanart med
ſier / ad hun vill ecke lijda ſtraff nie vm-
uandan af nöckrum / helldur ſer hun / og
Pryder ſig mz yferuarpe / ſparneytne / fyr-
erſion og v mhyggiu / Enn er þo i ſan-
leika ein Afgudadyrkan / ſo ſem S. Pall
kieñer / huiad ſa hinn Agiarne ſetur meir
ſijna Tru a þetta falluallta Heimſins
Gods / helldur eñ a þañ lifanda Gud /
Þar fyrer er ei vndur / þott dramßſamer
Phariſear kyñe ecke ad lijda Chriſtum /
ſem ſtraffade þrra dygdarlauſu Agirnd /
og ſkamlegu afgudadyrkan / hellðr hörs
udu hañ ꝛ ofſokru af allre þrra Ul lagt.

Eige helldur gatu þeſſer Phariſe-
ar lided / ad vor Herra Chriſtus ſtraffade
þeirra Villu og rangar Kieñingar / þui
þeir hielldu / ad þeir alleina hefdu viſk-
unnar Lykel / ad þeir epter eigen potta
kyñe Himerijke aptur ad lata / og vpp ad
luka / Eñ ſkildu þo huörke Lögmaled
riettelıga / Nie helldur viſſu huad þeir
trua ſkylldu vm Meſſiam / Þetta ſtraff-
ade Drottenn / huad þeir ecke lijda kunnu

Eirnen aüſtade Chriſtus Phariſeaꝛna fyrer þad/ ad þeir eige ad eins vortt ſialfer villter/ helldur ad þeir og eirnen med róngum ⁊ fólſkū Lærdome ⁊ Kienningum/ villtu adra j fra þm rietta Hirder og Sáluhialpar veize/ þetta gatu Phariſearner ⁊ ecke j neinn máta þolad.

Vegna þuilykra ſtorra Laſta ⁊ Synda ſtraffade Chriſtus Phariſeana/ ꝥ þr ſkylldu leidriettaſt og verda Saluholpner/ hootande þeim/ ad ef þeir betrudu ſig ecke/ þa munde þeir eydelagder verda hier a Jórdu og ſijdan aūars Heims eilijflega fordæmder. Enn huórnen toku Phariſearner þeſſu ? Eins ſem þad galen Manneſkia/ tekur a mote þeim/ ſem þeñe hialpa vill/ j heñar Siukdome og Ædet (þad er) lijka ſem eiñ odur Hladur bijtur og ber/ rijfur og ſlijtur þann ſem hónum Lækninga leita vill/ ſo giórdu ⁊ Phariſearner/ Alla ſijna Kunnattu og Magt hófdu þeir j framm/ ad ſuijkia Jeſum/ ſo þeir giæte hónum fyrerkomed/ Þar fyrer ſendu þeir til hans/ ſijna Sendeboda/ þryſuar ſiñū/ a Mannudagen næſtan fyrer adur eñ þr kroſſfeſtu hū.

Þeir enu fyrſtu Sendubodar/ voru

Phariſea

Phariſei / a ſamt med Hirdmōñum Her-
odes / Þr ſpurdu hañ ad huórt Þeir ſkyll-
du giefa Keiſaranum Skatt / og meintu
ſo ef hañ ſeiger / Ja / Þa fellur Almug-
en hónum j fra / ſo vier munū audvelld-
lega Þa gieta hónum fyrerkomed. Enn
ſeiger hañ nei / Þa grijpa Herodes Hird-
meñ hañ / og ſla hañ i hel / ſo ſem añ-
an landrads Mañ / a mote Keiſaranum.
Eñ Mañaña Klokſkapur duger ecke / a
mote Guds Vijſdome / Hañ ſagde huór-
ke Ja / nie Nei / helldur / Bad hñ Þa ad
lata ſig ſia Skattpeningen. Þa hñ fieck
nu Peningen / ſagde hann / Huórs Mynt
+ Yferſkript er Þetta? Þeir ſógdu / Kei-
ſarans / hañ ſuarade / giefed Þa Keiſar-
anum Þad Keiſarans er / og Gude Þad
hónum ber / So reiddust nu huórke Her-
odis Þienarar af Þeſſu Andſuare / ei
helldur Almugen.

Su óñur Sendefór var af Saduce-
is / huórier ecke trudu ad Meñ ſkylldu af
Dauda vpprijſa / Þeſſer Saducear mein-
tu ad Þeir giætu vt af Chriſti Andſuare
Innfært nóckurn oheyrelegan Lærdom /
Þar Christus kiende ad aller Meñ ſkyll-
du vpprijſa a hiñ ſeinaſta Domadag /

Og settu nu so fram̃ sijn Ord. Hier var ein Kuiña hia oss (seigia þeir) sem att hafde 7. Meñ huórn epter añan / þa þr voru aller dauder / þa deyde og Kuiñan / Huór af þessum sió skal nu hafa hana epter Vpprisuna? Þeir þeinktu ad hann munde nefna til eirn af þeim / edur alla / og huórt sem hañ hefde giórt / þa hefdu þeir sagt / ad ei være þad hæfelegt fyrer saker Þrætu / Aufundar / ꝛ liotrar Sniuirdingar ad aller skylldu hafa hana / Og meintu sig so hier fyrer nidur ad sla / Lærdom Christs / og Biuġsa ad hñ være falskur / og ad hañ hier fyrer yrde tilbærliga straffadur.

Enn huórin suarade Christur þeim?

Þier fared villt (sagde hñ) þui þier vited ecke Ritningena / eige helldur þecked Guds Krapt / og giöred ecke greinar mū a mille þessa Heims Lijfernis / ꝛ Himnarijkis Vistar epter Vpprisuna. Hier nefner Christur þriar Greiner til / huar fyrer ad Saduceraner foru villt.

1 Hin fyrsta Grein / er þesse / Ad þr ecke vissu Ritningena / huór ed oss alleina læra og vnderuįsa kañ / huad riett er edur oriett / j þeim efnum sem vorre

Salu-

Sæluhialp vid koma/ Þar fyrer seiger Dauid so/Ord þitt Drottenn er eitt Lios fyrer mijnum Fotum.

2 Su önur Grein/er þesse/ hvar fyrer þeir foru villt/ad þeir ecke vissu Gudz Krapt og Almætte/fyrer hvört hann so vel gietur a hinum seinasta Deige þa hinu Daudu vpp reist/ so sem hann allæ Hlute kuñe ad skapa a þeim fyrsta Deige. Þar fyrer/nær þier hured vm Vpprisuna/ þa taked ei Rad hia ydar Skynseme/og holldligum Skilninge/ sem ei skyniar leingra fram enn til þessara lijkamlegra Hluta/ Helldr skulu þier merkia huad Ritningen seiger/ og vited þ ad þar er eingen Hlutur omögulıgur fyrer Gude/sem alla hlute hefr skapad.

3 Hin þridia Grein/ hvar fyrer Saducearner villt foru/ hū er þesse/Ad þr glæptu eige ad þeim mısmun sem er a Mansins Lifnade og Vmgeingne hier j Heime/og añars Heims j Himerijke. J þessum Heime kuonga Menn sig/ Enn j Himerijke er ei kuonfangs ad leita/helldur skulu þar aller vera eins og Guds Einglar/ Og sa Kiærleike sem þar er/ hañ mun þusundfallt yfer ganga þessa

 Heims

Heims Kiærleika / og formyrkua hann / lijka sem Solen / nær hun a Mornana vpp geingur / þa suipter hun allar adrar Stiörnur þeirra Birte + Biartleika / Enn alleina þa Heimenum lyser.

Su þridia Ordsending / sem Gydingarner sendu þann sama Dag til Christum / Hun er vm huöria þesse adr greindur Texte hliodar. Þa Pharisearner heyrdu ad Jesus hafde nidur þaggad þa Saduceos / þa geingu þeir fram / og spurdu hann ad / huort er þad ædsta Bodord j Lögmalenu. Eige ad þeir villdu læra / edur ad nema af hönum / helldur ad þeir feinge tilefne til þess ad fyrerkoma hönum / þuiad / þetta var þeirra Meining / Epter þui / ad þesse Jesus lætur skijra / og straffar oss sem lifum epter Lögmalenu / og hölldum oss ad vera riettlæta af Lögmalsins Verkum / þa mun hann visseliga ecke skeyta vm Lögmaled / helldr mun hann meir hallda fram sinne Skijrn / enn Moyses Lögmæle. Finnst þetta med hönum / þa höfum vier nægiallt efne til / ad aklaga hann sem annan Gudlastara / sa ecke acktar Guds Lög / þau

þad Gud hefur oss giefed fyrer sinn Pie-
nara Moysen.

Hier til suarade Jesus & sagde/ Þta
er þ stærsta og ædsta Bodord/ Þu skallt
elska Drotten Gud þinn af öllu þijnu
Hiarta/ af allre Sæl/ og öllum þijnum
Kröptum. Pad annad er þessu lijkt/ Þu
skallt elska þinn Naunga so sem þig
sialfan/ j þessum tueimur Bodordum er
faled allt Lögmæled og Spamennerner.
Þetta Andsuar kom þm ovart/ þar fy-
rer gætu þeir ecke j nöckurn mæta hier j
mote talad. Hier sium vier ad eingenn
Vijsdomur/ eingen Slægd duger j mote
Drottne/ huör ed allan Heimsins Vijs-
dom til skammar giörer og ad önguu/ so
sinn hnn seiger fyrer Spamannenn Esa. 29.

## Sa annar Lærdomur/ sem er Lögmæled/ þar vm vil eg þriar Greiner framm setia/ og þær vtleggia.

I.

Hin fyrsta skal vera/ vt af þessum
tueimur høfud Bodordum/ Þu skallt
D v. elska

elſka þiñ Gud ꝛ Drotten af ollu Hiarta þijnu/ af allre Sal þiñe/ og aullum Kroptum þijnum/ Og þu ſkallt elſka þinn Naunga lijka ſem ſialfan þig.

II.

Su oñur Grein/ er vm fiograhanda Villur/ og rangſnunar Meiningar/ ſm marger hafa vm Logmalſins Lærdom.

III.

Su hin þridia Grein ſkal vera/ vt af Logmalſins riettre Tijdkan/ Þad er/ huar til Logmaled þienar og ſie nytſamlegt.

## Su fyrſta Grinen.

HJer fram̃ ſetur nu Logmaled fyrer oſſ tuõ Bodord/ þ fyrra/ Þu ſkallt elſka Drotten þinn Gud/ þad anuad/ Þu ſkallt elſka þiñ Naunga. Eñ huórnen Madureñ ſkule Gud elſka/ þad vtſkyrer hñ ꝛ ſeiger. Þu ſkallt elſka Gud af óllu Hiarta þijnu/ allre Sal/ aullum Króptum/ Og huórnen Naungans Elſku ſkal vared vera/ þad vtſkyrer hann ſeigande/ Þu ſkallt elſka þinn Naunga lijka

lijka so sem sialfan þig:

Eñ hvad er þad ad þeckia Gud af öllu Hiarta / af allre Sal/öllum Kröp-tum? Andsuar. Vt j þessu Ordenu/ ELSKA/ þa eru þrijr Hluter siñ Mañe ber ad gaumgiæfa og vnderstanda. Fyrst ad þeckia þañ Hlut sem Madurenn elska skal / þuiad eingen elskar þad sem hann þecker ecke. Þad annad/ su Girnd og Hiartans astundan/ sem riettre Elsku fylgia a. Þad hid þridia/ Athæfe og aller Giörningar sem þesse Elska med riettu og naudsynlega vtkrefur. Þar fyrer set-ur og Guds Lögmal þessa þria Hlute til samans/ og seiger / Þu skallt elska Dr-ottin Gud þiñ af öllu Hiarta þijnu / af allre Sal þiñe / og af öllum Kröptum þijnum / Og er þetta Meiningen ad þar skal vera j HJARTANU (þad er vt j Mañsins Skilning og Skynseme) eitt kla-rt Lios og sañur Kuñugleike Guds / ad Madurenn vite þad / ad Gud hann er sa hiñ allra Beste og agiætaste / af hvörium ad allt gott kiemur.

Þar næst attu ad elska Gud af all-re SAL. Þad er ad skilia / allar þijnar Hiartans Girnder og Tilhneigingar / og

Hugreñingar/ſkulu þetta aſtunda/ad þu elſker Gud/og girneſt þia hönum ad vera/ og ſetier allt Rapp og alla Aſtundan þar a ad þu kuñer hönum ad þocknaſt/ og hönum j þijnu Hiarta eilijflega ad hallda ꝛ hans niota.

Pad þridia er/ad þu elſker hann af öllum KRAPTVM þijnum / þad er/ Ad þu þinnar Skynſeme og allrar Aſtundunar neyter hier til / ad vernda forſuara / varducita / og fram̄ fylgia þui/ ſem Gude til kiemur/ og hans Vilie er/ enn j mote ad ſtanda þui öllu ſem Gude miſlijkar/ þad er/ Dioſlenum og Syndonum/ og öllu þui ſem Dioſulſins Rijke edur Syndeñe af ſtad kiemr/ꝛ hana efler.

Hier ſiaum vier nu/ þær þriar Facultates j Mañenum/ þad er/ þriar nattwrlegar jñſæddar Gafur/ ſem ſo kallaſt/ Ratio, Appetitus, Ira, þ er Skynſeme/Tilhneiging/og Reide. Fyrſt a vor Skynſeme þar leita ad þui hinu Beſta/ ſem er GVD/ þar næſt a vor Tilhneiging ad aſtunda ad elſka/ niota ꝛ bihallda þui beſta/ſem er Gud. Vor Reide edur Vandlæting hun a ad vpp vekiaſt til þeſſ ad forſuara og vernda þ hid beſta/

sem er Gud/ og med fullum Fiandskap ad hata allt bad sem Gude er a mote/ sem er Diöfullen/Syndeñ/og öll tilefne Syndareñar.

Framñleidis/ þa þu heyrer/ ad þu att ad elska Gud af aullu Hiarta/ a f allre Sælu/ af öllum Kröptũ/ Þa skal tu þetta so vnderstanda/ ad Gud vill hafa af þier hreina/ algiörda/eilijfa/ + andlega Elsku/ So ad hun sie skiær og hrein an fleckunar/ algiörd + fullkomeñ an nöckurs Brestz/ eilijf/ an allrar Hins dranar/ + Andleg/ an Holldlegra Freistinga/ soddan Hlydne vill Gud vier sier veitum:

Þad añad höfud Bodord er þetta/ Þu skallt elska þinn Naunga lijka sem sialfan þig/ Hier vill Gud/ad sa Kiærleike sem vier höfum a oss sialfum/ hañ skal vera ein Regla/ og Mæler epter huørre Nlañ skal vita ad elska siñ Nañga.

Ad þetta kuñe betur ad skiliast/ þa er merkianda/ ad Maduren kañ m3 tuenu mote ad elska sialfan sig/ sem er/ Ranglega/ + riettelıga. Þar næst er greinar munur giörande/ a mille Persons Naungans/ og þess vonda Verks sem

 Na=

Naungen giörer.

Margur haṅ elskar sialfan sig/ med blijndum/ oforsiałegum + skad samlegum Kiærleika/ huör ed vppreṅur af Holdsins Vanært (þad er) af Syndeṅe/ sem af Arftöku j oss bygger/ Epter þessum Kiærleika skulum vier ecke elska vorn Naunga/ þui siṅk Elska/ hun er Hatur fyrer Gude og Synd.

En öṅur Elska/ sem Madur hefur til sialfs sijns/ er riettelligur Kiærleike/ vpprunṅen af Andanum og Truṅe til Jesum Christum/ huör ed allan Vilia + Astundan hefur a þui/ ad giöra þad sem Gude er þægelegt/ + sier sialfū til Saluhialpar. Þesse lögligur og riettelegur Kiærleikur/ hṅ skal vera Regla/ Form + Fyrermyndan/ epter huörre vier eigum ad elska vorn Naunga/ so ad vier vṅum vorum Naunga alls þess/ sem hönum ma koma til Gagns og Saluhialpar/ ad vier æskium hönū alls Gods/ ad vier med Ordum og Verkum/ med hollum Radum/ + Hiastod allre hialpum hönū til hins besta/ og af vendum med allre Magt/ Hug og Siṅe/ öllu þui sem hönum kann j nöckurn mata til Skada ad

vera

vera/yppa Lÿf og Sal/Gots edr Æru·

Vor Drotten Jesus Christus/amiñer oss ad elska vorn Naunga/ Eñ hann setur oss sitt Epterdœme til fyrermyndar/ og seiger/ Elsked huór añan lÿka so sem eg elskade ydur/ Og kallar þar fyrer þetta/ eitt nytt Bodord/ Huar med Christus vill oss kient hafa/ ad vier skulum jafnuel med haska vors Lÿfs/hialpa Naunganum/ og ei leita vorrar Nytsemdar þar med/ helldur Naungans Gagns og Sæluhialpar. Enn huórnen Christus hefur elskad oss/ þ kieñer Pall Postule til Romue. 5. Cap. So sem vier villium j þeim þridia Lærdome framar meir fa ad heyra

Hitt annad/sem vel er merkianda j þessu hófud Bodorde/ vm Elsku vors Naunga/ þa er þetta/ Ad vier giorū greinar mun mille Personu Naungans/ og þess voda verks sem Naungan fremur.

Illa Meñ og Ogudliga skulum vier hata/so myked sem þad þeirra Synder og Glæpe ahrœrer/Eñ þad þeirra Personu vid kiemur/sem er ad þeir eru Meñ

ſo ſem vier/ þa ſkulum vier elſka þa. Straffa eigum vier þad huad vier hỏtum med Naunganum/ þad er/ Synder og Lỏſtu/ eñ elſka ı hỏnum þad oſſ byr iar ad elſka/ þad er/ vier ſkulum aſtuuda ad Madurenn meige hialpligꝫ verda. Og ſo mı̄kꝫed ſie nu ſagt vm hina fyrſtu Grein ſem eg vm Lỏgmaled framſette.

# Su ỏñur Greinen.

SV ỏñur Grein/ er vm Villur og rangar Meiningar/ ſem falſker Kiennefedur hafa vm Lỏgmaled/ og eru þeir Falslærefedꝫ ſierdeilis med fiorū hættū.

I.

Fyrſt eru þeir ſem med ỏllu vt ſkwfa Lỏgmaleuu/ ꝫ vilia ecke/ ad þad predikeſt ı chriſteligre Kirkiu.

II.

Þar næſt eru nockrer/ ſem Lỏgmalenu biſhallda vilia/ Enn kienna þo/ ad Madureñ kuñe mꝫ ſijnum eigen Mætte Lagmaled vpp ad fylla.

III.

Ꝭ þridia

I þridia lage eru þeir/ sem seigia ad Madureñ kuñe nockud af Løgmalenu vpp ad fylla/ þo ecke allt.

IIII.

Niner fiordu og siðustu /þa eru þeir sem hallda/ ad sierhuør Þiod hafe siin eigen Løg/ huør ed nægiast mune til Saluhialpar þeim sem þau hallda.

Þessar fiorar Villur eru daudliga skadsamar / og hafa ei añan Grunduöll enn þess leida Diöfuls eiturlegañ innblastur/sem Meñena vpp kueiker til þess/ad suijkia sig/ & adra ad leida fra þm skiæra og hreina Lærdome/ bæde Lögmals og Euangelij/ Þar fyrer vil eg stuttlega eyda þessum fiorum röngum Meiningum vm Lögmaled.

1 Þeir hinir fyrstu sem burtskufa Lögmalenu/ & vilia ecke þad lata predikast j christeligre Kirkiu/eru ecke makleger/ ad þeirra Meining/med mörgum Ordum skule nidur þaggast/Þuiad þra Meining er j mote allra Mañanattursligu Skilninge/ Þar næst j giegn Christo/ hans Postulum/ og öllum Heilögu Kieñefedrum sem vered hafa j christelig-

E : re

re Kirkiu. Þeir seigia so/ Christner menn hafa ei þar med Moyses Lógmal/ þar fyrer eru þeir ecke helldur vnder hans Lógmal lydskylldugier: Item/ þeir enu Christnu eru frialser ordner fyrer Christum. Item/ Christus baud ad predika Euangelium fyrer óllum Skiepnum/ hnn baud ecke ad predika Lógmaled/ Item. Sa Helage Ande kiennr og vnderuijsar þeim hinum Christnu/ þar fyrer þurfa þeir ecke Lógmal sins vid. Med þessum Skiólum + Beuijsingum hallda þeir sig ad meiga burt skwfa Lógmale Guds/ so þad ei predikest j christeligre Kirkiu.

J fyrstu/ vil eg þessa hinu somu ad spurt hafa. Eiga ecke christner Menn ad elska Gud og sinn Naunga? Eg true ei/ ad nóckur sie so af Dióflenum stocken/ ad hann seige þar nei til. Nu fyrst þad christner Menn eiga ad elska Gud og Naungan/ hliota þeir þa ecke ad vita huórnen þeirre Elsku skal vared vera? Eg true/ ja. Þui eige er Elska og Kiærleikur/ vtan hann sie riettferdugur. Nu fyrst ad Guds Lógmal. (Þ er þau tiu Bodord) Kienna huórtueggia/ bæde ad elska Gud/ + Naungan/ og so eirnen huórnen

vier

vier eigum þad ad giöra / Huör er þa sa / sem eige fulluel skyniar / ad þesser fara villt / sem ei vilia ad Guds Lögmal skule predikast a medal Christins Almuga.

Nær þeir so seigia / Moysis Lögmal heyrer ei til þeim hinu Christnu / Satt er þetta / so vÿtt sem þad Kirkiuñar Lögmal / og Landstiornar Lögmal Moysis ahrærer / sem var Offur og Umskurdar skÿrn / og margar adrar Ceremoniur og Skickaner / huöriar vid Nagt attu ad blÿfa til þess ed Christur kiæme / eñ ecke leingur / helldur skyllde þær þa hafa eitt Enda:

Enn þessu er ei so vared vm Guds Lögmal (þad er) vm þau tiu Bodorden sem Maſenu eru giefen j Skaupuneñe / og sÿdan vppa nytt fyrer sett a tueimur Steinspiölldum / til eiñrar eilÿfrar Miñingar / Christi sialfur hefur og Lögmaled predikad og vtlagt / Sömuleidis þr enu Heilögu Spamenn / og þeirra Eptirkomendur.

Framneigis seigia þeir / Christner meñ eru ecke vnder Lögmalenu / helldur vnder Nadeñe. Þetta er riett talad / ef

E ij. þu

þu skilur þad riett/ epter þui sem Pall Postule hefur þad meint/ Christner meñ eru ecke vnder Lögmalenu (þ er ad skilia) huör hañ truer a Jesum Christum/ sa er ecke vnder Lögmalsins Bölvan/ Þuiad eingen fyrerdæmest sa sem er j Christo Jesu/ Tim. 8. Eñ þo allt ad einu þarf sa hiñ Christne vid Lögmalsins Lærdoms/ so ad hañ kunne ad vita huörnen hañ skal lifa j þessum Heime/ so Gude lyke/ Hann hlytur ad vita huad Gude mislykar/ Enn huörtueggia þetta þa kieñer hönum Lögmaled.

Item. Seigia þeir/ Þeir enu Christnu/ eru frij og frialser ordner/ þar fyrer eru þeir ecke vnder Lögmalenu/ Sannleikur er þad/ þeir eru frij og liduger fra Lögmalsins Bölvan/ Syndenne og Heluijte/ Eñ ecke eru þeir j þañ mata frij og frialser/ ad þeir meige giöra allt huad sem þa lyster/ Helldur j þañ mata/ad þeir skule þiona Gude/elska hañ og Naungan/ af ollum Mætte so sem Lögmaled þeim kieñer.

Þeir seigia og eirnen/ Christus baud ad predika Euangelium fyrer öllū Skiepnum/ enn til Lögmalsins lagde hañ ecke

pars:

Par? Þar til ſuaraſt ſo.

Ad Chriſtus bauð ad predika Synda-
aña Fyrergiefning/ Eñ huad er Synden
añad eñ Lógmalſins Ofertrodſla? Hafe
nu þeir hinn Chriſtnu ecke Lógmaled/
þa hafa þeir og ecke helldur Syndena/
Sómuleidis ſkipar Chriſtur og ſo Poſt-
ularner/ ad þeir enu Chriſtnu giöre A-
uörtu Jdranareñar/það eru godverken/
þau ſem Lógmaled bydur ꝛ vtheimter.

Þeir ſeigia og ſo/ Sa hiñ Hellage
Ande kienner og vnderuiſſar þeim enu
Chriſtnu/ þuí þurfe þeir ecke Lógmals-
ſins vid.

Þetta er darlega talad/Helldur æt-
te ſo ad ſeigiaſt/ Heilagur Ande kienner
þeim Chriſtnu/ þar fyrer hlio ta Mēnn
ad hafa Predikara/ Kiennefedur/ Lóg-
maled og Euangelium/ huiat ſa Heila-
ge Ande lærer og hrærer Mañſins Hiar-
ta/ þa/ þegar Orded fyrer Eyronū hlio
dar/ vt j huórin Orde ſa Heilage Ande
vill vera kröptugur/ j þeim ſem Orded
heyra/ ꝛ þui trua ꝛ þ medtaka.

So ſiaum vier hier/ med huórſu
darligan og ſkadſamlegan Lærdom þr
fara/ſem vilia burt taka fra oſſ Guds

Lógmaal/ad þad ecke predikest j Christeligre Kirkiu. Þar fyrer latum oss yfer giefa þeirra falskan + skadsaman Lærdom/og bóckum Gude Almattugu fyrer sitt Heilaga Lógmaal/og bidium hn̄/ ad hañ giefe oss þañ Heilagan Anda/ ad vier giöra mættum nöckud þad sem hönum er þægeligt.

Ef Diöfullen kiæme þui til vegar/ad Guds Lógmaal tækest burt fra oss/ so sem hann giörde j Paradijs/ huad lage hönum þa añad epter/enn ad færa oss j Daudan/+ eilijfa Fyrerdæmning. Þuiat sa sem ecke vidurkienner sijna Synd af Lógmalenu/ hm̄ kañ alldrei ad smackest Naaden/ su sem j Euangelio verdur til sögd/ Sa sem ei veit siñ Siukdom/ edur skyniar huad skadsamlegur hann er/ hann same hirder ecke storlega vm Læknarann.

2 Þar næst j ödru lage þa eru adrer Kiennefedur þeir sem rangt kienna vt af Lógmalenu/ og seigia/ ad Lógmaled skule ad söñu predikast j christeligre Kirkiu/enn vndermidre kienna þeir og meina falsklega/ad huör sem vill/ kunne vt af eigeñ Magt og natturlegum formætte Lóg-

Lögmaled vpp ad fylla/ og fyrer Lögmalsins Verk riettlatur ad verda/ og Himerijke ad forþiena.

Þesse Meining er raung/ þar fyrer vil eg med liosum Greinum og óraskanlegum Vitnisburdū Ritningarennar stadfastliga biuijsa/ad eingen Manneskia fra teknum Jesu Christo alleina/kune Lögmaled vpp ad fylla.

I.

Þan̄ fyrsta Vitnisburd ✝ Beuijsing ad eingen kune Lögmaled vpp ad fylla/ giefur oss mañdomleg Nattura/ sin̄ ad er med öllum Mönnum/ þad er. Aller Menn allt j fra þeirra Fædingu eru oreiner/ saurugier og Syndonum seker. Nu er auglioſt/ ad af einum saurugum ohrecktar Brun̄e/ kan̄ eige an̄ad en̄ fwlt ✝ illa lycktande Vatn fram̄ ad koma/ So kan̄ ✝ ei þad ad skie/ ad ein ohrein og Syndum saurgud Manneskia/ kunne ad veita Gude hreina/skiæra ✝ flecklausa Hlydne/ þar fyrer seiger Salomon j sinne Predikan 7. Cap. Sannlega er þar ecke nöckur a Jordun̄e sem giöre gott ✝ eige syndge/ og Job seiger/ 14. Cap. Huör kan̄ giefa hreint Fræ af þui hinu

 ohrei=

obreina? Sañlega kañ eingen ad giöra
þad/ þuiad vier erum aller komner af
syndugre Natturu/ + af Syndum spillte
re Root vppruñer/ Mun nöckud möguo
legt ad Avöxturen sie betre enn Tried?
Þar fyrer er, þtta obrigdanlig Sañinde/
Ad aller þeir sem eru af sialfum sier o
breiner/ þeir kuña ecke j nöckurn mata
ad veita Guds Lögmale skijra og hrei
na Hlydne. Nu eru allar Mañeskiur af
Natturuñe til obreinar (fraskildū þm
einum Jesu Christo/sem eige er epter al
meñeligū hætte fæddur sem adrer Meñ/
af Sæde Kallmans og Kuiñu) hier fyr
er þa er þad augliost ad eingen Mann
eskia kañ Lögmal Guds vpp ad fylla.

II.

Sa añar Vitnisburdur/ sem þ auge
lyser / ad eingen Mañeskia kuñe Lögma
led ad fullkomna/ er sōñ Raun og Reyn
sla huörs eins Mans med sialfum sier/
af þui ad eingen er sa j Heimenum/ef hñ
ransakar sitt Hiarta / og skodar sijna
Samuisku / ad hañ ecke fiñe sig ad vera
langt burt fra þeim Algiörueleika sem
Lögmaled vt krefur. Huör er sa sem ei
forneimur sig opt og tijdum þad giört
hafa

hafa/sem hañ skyllde ecke/ og þ ogiört læted sem hañ skyllde giört hafa? Sañlega/ þr sem seigiast vpp fylla Lögmæled/ og ad adrer giete þad eirnen giört/ þeir fiña fullvel vitnisburd j sijnu eigen Hiarta/ hvör Vitnisburdur/ þo þad sie fyrer Mönonum duled/ þa er hañ lijka vel Gude kuñugr/ sem sier/ skodar + rañsakar allra Maña Hiörtu + hugreñingar

III.

Hiñ þridie Vitnisburdureñ/ siñ audsyner þad/ ad eingen Madur giete Lögmæled vpp fyllt/ þa er riettferdugur Guds Domur/ m3 hvörium Dome Gud önguañ straffar nema þañ sem sekur er/ + Guds Bodord og Bifalning yfertroded hefur/ Nu er þar eingen sa Madur/ yfer hvörn ed Guds Domur og Straff kome ecke/ sem er marguijslegar Sotter Motgangur/ og Daudeñ med sijdasta/ hvad allt ad er Straff og Pijna/ fyrer Syndena og Yfertrodslu Guds Lögmæls/ Þar fyrer er hier vt af auglióst + audsynelegt/ ad aller Meñ sieu syndugier/ og Guds Lögmæls yfertrodslu Meñ/ so ad þeir kunna ecke fyrer Lögmælsins Verk riettlæter ad verda j nöckurn mæta.

 Fiorde

IIII.

Fiorde Vitnisburdur / ad eingen giete Guds Lógmal vpp fyllt / er þesse / Guds Lógmal og Mañsins Nattura / þau eru ölldungis olijk / og huórt er þar ödru motstadlegt / Huiad Lógmaled er Andlegt / Eñ Mañsins Nattura er kiötleg / huad og eirnen S. Paall auglyser / þar hañ so seiger / Rom. 7. Cap. Vier vitum þad Lógmaled er andlegt / eñ eg em Holldlegur / vnder Syndena selldur. Þader ad skilia / Eg em so Syndenne vnd giefen / ad eg kañ heñar alldrei kuittur ad blijfa / so eg giete Guds hid andlega Lógmal vppfyllt / enn eg þacka Gude fyrer Jesum Christum / huiad huad eg ecke kunne sialfur ad frāmkuæma / þad giörde fyrer mig Herran Christur. Þessa Grein frāmsetur Paull Postule med mörgum Ordum j þui Capitula sem nu var nefndur.

V.

Su hin fimta Beuijsing / ad eingen giete Guds Lógmal vppfyllt / þa eru Guds eigenlig Ord hia Moyse / Psalmonum / j hia Spamöñonum / Gudspiallamönnonum / og j Postulanna Pistlum.

Hia

Hia Moyse er so skrifad 6. Cap. Hiñar fyrstu Bokar/Gud sa/ad Mañsins Illska a Jördune var mykel/ og allar Hiartans Hugrenningar og allt Athæse var vont. Iob 6. Cap. Eg veit fyrer vyst ad so j Sañleika er/ þad Manneskian kann ecke ad giöra sig riettlatan fyrer Gude/Eñ vilie Gud ganga j Dom vid hana/ þa kañ hun ecke ad suara hönum einu Orde a mot þwsund. Item. Seiger Iob/Ef eg vil riettlæta mig sialfán/þa fordæmer mig miñ eigen Muñur/ David seiger j 13. Psal. Aller Meñ eru for diarfader og suyuirdeleger ordner j syñu asetninge/þar er ecke nöckur sem gott giörer/ ja ecke eirn: Item. Seiger hann j sama Psalme/ Gud hañ leit ofan af Himnum yfer alla Mañsins Sonu/ ad sia/ ef nöckur være Hyggen og leitande Guds/ þa voru aller afuikner/og onytsamleger ordner/ so þar fañst ecke eim sem giörde huad gott var/Item/j þiñ 130. Psal. Drotten/ Ef þu giæter ad Syndonū/huör kañ þa ad standast fyrer þijnu Auglite? Þar fyrer Bidur David j þeim 143. Psal. Drotten gack ecke j Dom med Þræle þijnum/ þuiad eingen

 lifande

lifande Madur finst riettlætur fyrer hijs
nu Auglite. Og Salomon seiger j sijnū
Ordskuidum 20. Cap. Huör kañ ad seig-
ia/Mitt Hiarta er hreint/+ eg em synd-
laus? Esaias. 64. C. seiger/Vier erū
aller ordner so sem sa ohreine/Ja/allt
vort Riettlæte er so sem eitt andstygge-
lega saurugt Klæde/Vier erum aller af
fallner lijka sem Laufblad af Trienu/+
vor Hreckuijsi hefur suipt oss a burt sin
eirn Stormur. Christus seiger j hia Jo-
hañe 3. Cap. Pad sem af Holldenu
fædest/pad er Holld/ Paulus til Rom-
veria 3. Cap. Vier hófum beuijsad (og
audsynt) ad aller Menn bæde Gydingar
og Heidingiar sie syndugier/ Til Ephe.
2. Cap. Vier erum aller af Natturuñe
Reidiñar Börn.

Af þessum Vitnisburdum vpp tól-
dum/og mórgum ódrum j Heilagre Rit-
ningu auglysist klarlega/Ad eingen Ma-
dz kuñe Lógmæled Guds vpp ad fylla.

VI.

Hina siöttu og sijdustu Beuijsing/
þ eingen giete Lógmæled fullkomnad/
hana framsetur Pall Postule til Gala.
2. Cap: Ef Riettlæted er(seiger hann)
af

af Lögmalenu/ edur Lögmalsins Verkum/ þa er Christus til onytis dæen/ þuiad Christus kom þarfyrer j þeñan Heim ad hñ Lögmaled vpp fyllte/ huad einginn Mañeskia kuñe ad gióra/ so ad sa sem a hañ truer/ hónum skyllde til leggiast og reiknast Lögmalsins riettlæte/ þad Christus fyrer syna Personu giórt hefr.

Þesser eru nu þeir sex oriufanleger Vitnis=Burder og Beuijsingar/ Sem stadfastlega audsyna/ ad Meining þeirra Papista er róng og fólsk/ sem kieña/ skrifa/ og predika þuert a mote sinne eigen Samuitsku/ ad Madurenn giete Guds Lógmal vpp fyllt/ og verde þar fyrer riettlætur fyrer Gude/ af Lógmalsins Verkum.

3 Þridia slags fals Kieñefedur Lögmalsins/ eru þeir sem vidurkienna ad sönu/ ad Maduren ecke j allā mata giete Lógmaled vpp fyllt/ Enn giete þo mijked giórt og margt þ sem Lógmaled skipar/ þar fyrer (seigia þr) þess meira sem Maduren giórer af Lógmalenu/ og þess fleire godverken sem hñ fremr/ þess meir er hann riettlætur epter Lögmalenu/ eñ þad hañ vantar a/ þa bi[illegible]

 [illegible]

ie hañ Christum þar vm. Þessa Meining hafa allmarger / sierdeilis veralldleger vijsinda Meñ og sialfbirgingar / Eñ er þo röng og fölsk / og hœdungarsamlig j giegn vorum Herra Jesu Christo / huör ed alleina er sa sem Heimsins Synder burt tekur / og þa riettlœta giörer / sem a hañ trua. Þesse Meining var hin mesta sök til Glötunar Gydingaña / sem S. Pæll kiemer til Röm. 10. Cap. Af þui (seiger hañ) ad þeir þecktu ecke Guds Riettlœte / helldur hielldu fram sijnu eigen Riettlœte / þa kuñu þeir ecke Guds Riettlœte vndergiefner ad vera / Þuiad ending Lögmalsins er Christus / þeim til riettlœtis sem truer / þad er ad skilia. Sa sem truer / hann hefur þad allt sem Lögmæled vt krefur og heimter / sem er Riettlœted / huört Riettlœte Christus til teiknar þm sem trua / S. Pæll til Phi. 3. Cap. Seiger so / ad Riettlœte Euangelij edur Gudspiallsins / og Riettlœte Lögmalsins / þau eru med aullu olijk * adskilianleg.

Euangelij Riettlœte ödlast aller þr sem trua / Enn Lögmalsins Riettlœte / þa kañ nie gietur eingen feinged m3 sijnum

um Verkum/vtan Christus alleina/Sömuleidis þa kann og eingen Madur þad nöckud epter Lögmalinu ad giöra/ sem fyrer Guds Domstole kūne ad standast/ fyrr enn hañ er adur fyrer frañ ordenn riettlatur fyrer Truna. Þuiad þad er omögulegt(seiger S. Pall)ad nöck: kūne Gude ad þocknast nema hñ sie j Truñe.

Ad sönnu eru þar mörg Verk sem sijnast fyrer Mönonū ad vera god/ + þikia nytsamleg hier j Heime/ eñ eingen gietur þo fyrer þau riettlatur orded/ Þuiad sa sem Brytur af einu Bodorde/ hañ er j öllum brotlegur orden/ seiger Jacob Postule. Og eckert Verk kann Gude ad þocknast/ sem sa fremur edur giörer/ sim ecke er Jesu Christi Limur/ og riettlatur orden adr fyrer hans Hlydne/ Epter þui ad lijka sem Adams eins oblydne kom oss öllum j Fordæming/ sa verda aller þeir sem trua a Jesum Christum/ riettlater/ alleina fyrer hans Hlydne.

So mattu nu hier lioslega sia/ ad villt fara þeir storlega sem vilia vera riettlater bæde af þeirra eigenlegum verkum/og so fyrer Jesu Christi Verdskulldan/ so ad þess fleire godverken sem þr

 giöra

giőra/ þess hǫlpnare þikiast þeir vera/ Eñ þad sem þa bresta kann/ þess lætast þeir vilia leita hia Christo.

4 Sa fiorde Hoopur fals Kieñefedra er komen af Schola Mahometz/ huőr ed so kiende/ vppa þad ad hñ þss helldur kyñe ad hallda sijnum Læresueinum ꝫ vndergiefnu Folke vid sinn Diőfuls Lærdom/ Huőr Madur (sagde hañ) verdur Sæluholpen/ ef hann helldur þad Lőgmæl/ huőriu hann er vndergiefeñ/ þad er/ Ef eirn Gydingur hañ helldur sijnar Ceremoniur og vmskurdar Skijrn/ þa verdur hañ þar fyrer Sæluhialplegur/ Eirn Tyrke ef hañ helldur Mahometz Lőg/ þa verdur hañ ꝫ so Sæluholpen/ Helldur og eirnen sa hiñ Christne Euangeliske Lőgmæl/ þa fær hann og eirnen Sáluhialp. Þessa Meining hafa og so nőckrer Vijsinda Mienn/ sem ecke skynia Syndarennar Krapt/ ei helldur Jesu Christi Velgiőrninga. Eñ j giegn őllum þessum/ sem vilia verda sæluhialpleger fyrer þad Lőgmæl sem þeir vndergiefner eru/ þa set eg þesse lios og obrigdule Ord/ vr þeim þridia Capitula Joh. Sa sem truer a Sonen/ hañ hefur þad eilijfa

eiliijf a Lijf/ Enn huør hafi ecke truer a Sonen/ sa skal ecke sinn Lijfed/ helldur blijfur Guds Reide yfer hønum.

## Su Pridia Greinen vm Løgmaaled.

NV epterfylger hin þridia Grein vm Lógmæled/ sem eg lofade ad vtskyra/og er hun þesse/ Huar til Lógmæled sie nytsamlegt? Og huar til þad þiene Mónnunum/sierdeilis j christeligre Kirkiu. Þad hófum vier heyrt/ huad Lógmæled heimter ad oss. Þar næst/ad eingen sie sa sem þad vpp fylle. Nu ma nóckr þar fyrer so spyria/Huar til Lóg mæled duge/til huórs þad sie/fyrst þad eingen kann ad fullkomna þad/og eingen kann riettlætur ad verda vt af þessum Verkum?

Enn hier suarast so til/Ad Lógmælsins Gagn og Nytsemd er þrefólld/ Su fyrsta er hid ytra/ Su ónnur er hid innra/ Su þridia kallast Andleg.

I. Vt

F.

## Vt aþ þeirre ytre edur synelegu Nytsemdiñe Lögmalsins.

HId ytra þienar Lögmaled þar til/ ad þad styrer og stiornar Mönnum + helldur þeim j Taume/ so ad þr hafe eitt heidarlegt Framferde jnbyrdis med al Mañaña/ so eingen fremie nöckra þa Giörninga openberliga/ sem fyrerbodner eru j Lögmalenu/ og ad Mañ hegde öllum sijnum ytre Sidum og allre Umgeingne epter Lögmalsins hliodan:

Hier byriar nu Forelldruñ a huörium Bæ/ ad hafa Tilsion fyrer sijnu Hwse/ Valldstiornar Mönnum yfer Almugañ/ Tycktunar meistörum yfer sijnum Undergiefnum/ Item. Fostrum og Forucriörum yfer þeim þeir eru yfer setter/ Ja/ lijka eirnen Guds Ords Þienörũ Huörium einum epter sinne bifalningu/ þessum öllum og sierhuörium til heyrer ad sia granduarliga til/ ad su ytre Umgeingnen og Lifnadur mætte sidsamlegur vera epter Guds Lögmale/ og fyrer þetta kallast Guds Lögmal. Lex moralis/ Sidsemdar lögmal/ Huiad þad er ein almeñelig Regla/ huar epter sierhuer

skal

skal sijnum Lifnade og Sidum hegda og breyta.

J fyrstu er nu þesse hin ytre Augūen epter Lógmælenu Forelldronū bifólud/ ad þeir kieñe sijnum Bórnum/og hallde þeim vid Sidseme og Æru. Og hier til þa skulu þeir hafa j fraīe Lærdom/ Epterdæme/Blijd Ord + strijd/+ Vóndin ef aliggur/ so framt sem þeir vilia ecke sialfer falla vnder Guds Hefnd og Straff/so sem þeir þar ecke skeyta vm Guds aluarlega Bijfalning/huór ed vill ad Forelldrarner hallde Bórnonum vid Aga og Sidsemd/ epter þui sem þau tiu Bodorden iñe hallda + vtuijsa.

1 Þad fyrsta er Forelldrarner eiga hier j fraīe ad hafa/ þa er Kienssla edur Lærdomur. Strax med þad fyrsta þegar Bórnen fa Skyn og Mal/ þa skulu þeir kieña þeim þeirra Barna lærdom/ sem er tiu Guds laga Bodord/ Fader vor/Truarjatningen/ Jñsetningar orden beggia Sacramentaña Skijrnareñar og Kuólldmaltijdareñar/og ad Bórnen þetta yfer lese a Kuólld og Morna/ þa þau standa vpp + leggiast nidr.

2 Þar næst þa skulu Forelldrarner

 setia

fetia Baurnonum fyrer sioner sialfs siins Epterdæme og siñ eigen Lifnad/ ad þau þar epter meige breyta/ og læra Sidseme/ so ad/ þad sem þeim verdur med Ordonum sagt/ ad þau siae þad j Forelldraña epterdæme og frainferde/ og þui epterfylgi/ Eñ þeir sem kieña siinum Baurnum ad eins med Ordonum huad riett er/ enn læta añad j Lifnadenum a sier siæ og epter sier fiñast/ þr bæde kieña ✝ kieña ecke/ þui þad þeir kieña med Muñenum/ þad taka þeir apt: m3 Lifnadenum/ huar af myked jllt kienn/ bæde j andlegre og veralldlegre Stiett/ sem Daglega giesur raun vitne.

3 J þridia mæta/ þa eiga Forelldrarner ad vnderuiisa Baurnonum med godum Ordum/ og med miukum aminingum locka þau til Sidsemdarennar/ bæde til Orda ✝ Verka.

4 J fiorda mæta/ þa hliota Forelldrarner stundum j frame ad hafa skarp Ord/ ad nær Baurnen vilia ecke gangast fyrer med miukum ✝ godum Ordum/ ad þau finne þa hörd Ord og Hotaner/ so þeim sagt sie huad jllt þar kiemur af Ohlydne ✝ Osidseme.

5 Med sijdsta/ þa spare Forelldrarner og ecke Hrijsid ef ei vill betur verda/ og læte alldrei Osidseme edur þann minnsta Strakskap ostraffadan vera/ huert hann skier j Ordum edur Verkum/ so sinner/ Lyge/ Stuldur/ Eidar/ Haugg og Slaug/ ohæfest Ordtæke/ af hueriu helst þad vera kann. Jesus Syrach 30. Cap: Seiger/ Huer hn̄ elskar sitt Barn/ hann læte þad optsinnes Vönden finna/ so hann meige glediast med þ sijdasta. Og Salomon j sinne Ordskuida Bok 23. C. Seiger/ Gleym ecke þui ad aga þitt Barn/ slær þu þad med Vendenum/ þa deyr þad ecke/ straffer þu þad med Hrijsenu/ þa frelsar þu þess Lijf/ Enn hiner sem læta epter sijnum Baurnum/ og læta þau hafa Sialfræde/ þeir hiner saumu eru Sauk og Efne til allrar Hrausnar ꝛ Olucku Barnanna.

Pontanus hiet Madur/ hann skrifar vm eirn vngan Mann sa sem var med epterlæte af sinne Modur vpp alen/ Þesse vnge Madr forsa sig sijdan ꝛ var dæmdur til Dauda. Þa hann vard nu vtleiddur af Baudlenum til Aftauku stadarins/ kallade hann og sagde/ Ecke er þad

Baudullen/helldur myn eigen Modur er
ſu ſem mig til þeſſa Dauda vt leider/
huer med Epterløte vpp fædde mig aan
Aga ⁊ Hirtingar: Þar fyrer liggur For-
elldrunum ſtor magt a/ ad vpptyckta
Baurnen/ ſo þau hid ytra/ life ſidſam-
lega epter Hliodan Brra tiu Guds Bod-
orda. Nær Forelldrarner giora nu ſo/
þa verdur þad þeim hinum audrū liett-
ara ſijdar meir/ ſem Yferſion eiga eirn-
en ad hafa/ a þeirre ytre Sidſemdenne.

Þeſſe hin ytre vpptycktan og Aug-
un epter Moyſes Laugmaale/ hun er og
Yferualldinu a Hendur falen/ þuiad Paull
kallar Valldsmañen Guds Þienara/ til
ad framfylgia þui ſem gott er/ ⁊ ſtraffa
þ ſem illt er/ Og af þui ad ytre Vallds-
ſtiornen er af Gude/ þa hæfer heñe aullu
þui fram ad fylgia ſem Gude ma vera
til Lofs/ og hindra þad allt ſem Gude
er a mote/ ſo myked ſem þa ytre Vm-
geigne medal Mañaña ahrærer/ þar fy-
rer kallaſt Yferualided ad vera/ Cuſtos
Vtriuſq; Tabulæ. Þad er/ hañ a ad giæ-
ta huortueggiu Tauflunar. Hann ſkal
med allre koſtgiæfne aſtunda ad hallda
ſyynum Vndergiefnum vid goda Sidu ⁊
Guds-

Gudlegan lifnad / epter þeim tiu Bodo-
ordum. Valldsmadurenn skal og sialfur
life so / ad hann sie sijnum Undergiefnum
so sem annad Sionargler / huar vti Menn
kunne ad sia / huernen þeir skulu breyta
sier hier j Heime / epter Laugmale Guds.
Hann skal og so hneygia allt sitt Laug-
mal / alla sijna Doma og Bijfalningar
þangad / ad þad allt samhliode þeim x.
Bodordum / so ad veralldleg Laugsaugn /
sem Valldstiornen lætur vt ganga / hun
sie Guds Laugmale sem annur Hlijf ed
ur Skiaulldur. Valldsmadurenn skal og
eirnen straffa opinberlega Ofertrodslu
Guds Laugmals / og alla Glæpe sem
eru Gudlastaner / Afgudadyrkaner / onyt-
sueidar / Meinsære / Fyrerlitning Gu-
ds Ords / Ohlydne / Manndrap / Hordo-
mar + Frillulijfe / Lygar / Stuldur / Su-
ik og Falsuitne / og adrar þuilijkar open-
berligar Synder sem eru a mote Guds
Logmale. Hier skal Valldsmadurenn vi-
ta / nær hann gleymer þessu / + ecke straff-
ar openberlega afgongu Guds Bodorda
þa verdur hann sekur allra þeirra Syn-
da sem hann lætur oreffstar hia lijda. Þar
stendur af einum Manndrapara / ad hann

 slo

ſlo ſiö Meñ j Hel/ Sem hñ kom nu vm ſijder fyrer Dom og Riettẽ/ og var a° klagadur fyrer ſlijkt Mord + Mañdrap þa var þar nöckur ſem afsakade hann og ſagde/ ad ei hefde hañ dreped nema eirn af þeim ſiö/ Eñ ſa Vallds madur' en ſem ecke hafde ſtraffad þad fyrſta Mañdrap/ hñ hefde hina ſex j Hel ſleig-ed. Ad vïſſu/ þetta er ſo j Sañleika/ ad Valldsmadurẽ hñ er ſekur fyrer Gude/ nær hann lætur vmlijda oſtraffad/ þad ſem ſkie r motþroanlega j mote Guds Lögmæle/ og med þeim hætte lockar hañ ſo fleire til Syndareñar. Þui þad er ein omyſkuñſamleg Nad/ ad hlijfa einum/ allmörgum til fordiörfunar og Sælar Skada.

J ſama mata er Guds Lögmal a hendur faled Rieñefedrum og tyckfunar Meiſtörum/ ad þeir hallde þeim til ſid-ſemdar epter Guds Lögmæle ſem þeim eru Bijfalader/ ſo ad þeir vnderuïſſe þim enum ſömu med Rieñingum / Epter-dæmum/ Ordum og Straffe/ ſo ecket ſiñeſt laſtligt edur ſtröffunarligt j þeirra ytra Framferde + Lifnade/ Huad ef ty-ektũar Meiſtaraner ecke giöra/ þa ſynd-

ga þeir

Ba þeir bæde mote Gude/ og so Barnañä Forelldrum/ og Almuganum/ huad ei mun a sijnum tijma ostraffad. Sa sem siel: añars Mans Naute eda Saud/ hñ plaga Meñ j Galga ad heingia/ Eñ sa þañ ecke med Dygd vpp tycktar þañ/ sem hañ hefur j Bifalningu ad kienna og tyfta/ hañ fremur stærra Stuld/ og er þar fyrer fleire Heingingia maklegr.

Fostrar og Fiarhallds meñ/ þr sem eru Bórnonum j Forelldra stad/ þr. skulu og eirnen hallda sig/ epter þui sem ædur er sagt vm Forelldrana/ Þar fyrer þa eiga þr ei alleinasta ad foruara Omaga Gossen/ ad þau ei eydist edur brialest/ helldr eiga þeir jafnvel ad sia til/ so ad Bórnen mentist og vpp tykteft so sem Mónnum er til truad/ vitande ad su Los-sn sem þeir giórt hafa þeim afgeingnu Forelldrum edr huad þeim ber Lagañä vegna ad gióra/ þad skulldbindur þa fy-rer Domstole Guds/ eins og hefdu þeir Gude lofad ad taka þau Fódurlausu Bóm j forsuar. Hier fyrer kallar Gud sig sialfan Fódur fódurlausra Barna/ og Forsuars mañ Ecknaña. Eñ huórnen þ til geingr j Veróllduñe er augliost ad sia

 og

og fatækt Börn og farædar Eckiur finna þad fullvel.

Guds Ords Þienarar eru og eirnen med sama hætte skylldugir til/ ad halda þeirra Tilheyrendum vid ögun/ epter Guds Lögmale/ med kieningum/ Epterdæmum/ Ordum og Ströffuneñe/ epter þui sem Christus og Heilage Pall Postule kieñer/ so framtsem þeir vilia ecke finnast j þui/ ad giöra Guds Verk suiksamlega. Huar fyrer þr meiga vona epter Hefnd og Guds Ströffun/ a þeim sijdasta Deige/ ef þeir breyta ödru vijs. Hier fiñast marger þeir sem Dwfurnar straffa og læta Hrafnana burt fara/ Enn Gud vill ad þu skallt einskis Personu spara/ huört hann er hær edur lægur/ enn þo forsialega og med större rögsemd/ So sem sa gode Nathan giörde vid David/ Og er langt vm betra fyrer eirn Predikara/ ad missa Halsenn med Johañe/ helldur enn ad vera j Lyst og Glede med Herodes/ Hier skal Kieñemaduren meir virda Guds Æru/ 7 Mañs sins Forbetran/ helldur eñ sitt eiged Lijf og sijna Velferd.

Þetta er nu þad huad eg villda sagt hafa

hafa um þa ytre nytsemd Gudligs Lög
mals/huört ad vid Magt skal blijfa og
halldast/sauk um þessara fiögra Greina
merkeligra / sem er.

1 Guds Bijfalning.

2 So ad Meñ falle ecke vnder Guds
Hefnd og Reide.

3 So ad Meñ meige lifa fridsamle-
ga til samans hier j Heimenum.

4 So og ad Meñ kunne ad vera skick
anliger til þess ad heyra og medtaka / þ
Heilsusamlega Jesu Christi Euangeliũ.

## II.

# Su hin jñre Nytsemd Løgmalsins.

Sjka eins sem su fyrre Nytsemd edur
Tijdkan Lögmalsins er hin ytre/ og
duger fyrer Mönonum ad eins/so ad sa
sem sier skickar og hegdar j Ordum og
Verkum epter Lögmalsins Hliodan/ hñ
dæmest af Mönonum / ad vera riettlatr
fromur og dandis/So er nu j añan ma-
ta Lögmaled nytsamlegt / þienar hid
jñra j Mañsins Hiarta og Samuisku/
er nu þesse nytseme hier jnne falen/ ad
nær Maduren skodar og speiglar sig j

Lögmalenu / þa stefnest Mansins Samuitska fram fyrer Guds Domstol ad giora þar reikningskap / huort hn̄ hefr epter Lögmalsins hliodan / fullkomnad allt þad sem skrifad er j Lögmalenu / edur eige / Finnur han̄ sig nu ad hafa fullkomnad Lögmaled (huad eingen hefur þo gietad vtan Christus alleina) þa ma hn̄ vænta Blessanar + Myskunar j þusund Lidu / epter Fyrerheite Lögmalsins / En ef han̄ finnur sig ad hafa yfergeinged Guds Lögmal / þa heyrer han̄ strax ad Guds Hefnd og Straff skal yfer han̄ koma / j þridia og fiorda Lid / þar med heyrer han̄ og eirnen þan̄ Doms atkuæd is alycktanar Vrskurd Guds / er so hliodar / Bölvadur er sa sem ecke giörer allt þad sem j Lögmalenu er skrifad / Þetta Doms Atkuæde var vpp sagt / fyrst j Paradijs / Þar næst hia Moyse / m; klarum Ordum framsett / huörium Vitne ber Samuitska sierhuörs Mans / Þetta stadfester og eirnen Motgangur þessa Heims og Dauden / og sijdan þar til skal Heluijtis Pijna æfinlega straffa alla þa sin̄ ecke verda holpner fyrer vorn Herra Jesum Christum.

Þa

Þa CAIN. saman bar Synder sijnar vid Lógmaled / sagde hann / Mijn Synd er meire eñ þad eg kunne Nad ad sa / þa Saul Kongur þad sama giörde / fiell hañ j órvilnan / og vard so fordæmdur / Enn þa Dauid bar saman Lifnad siñ ⁊ Lógmal Guds / ⁊ sa sijna Synd / þa sagde hañ / O Drotten vilier þu giefa giætur ad Mannañа Ranglæte / þa finst þar eingen riettlætur fyrer þier / Eñ hia þier er Myskunen / ad Menn ottest þig / Sómuleidis Manasses / Magdalena / Ræningeñ / þesser vidurkiendu / fiólda siña Synda / jdrudust þeirra / ⁊ girntust Nad / So siaum vier Lógmalsins hin jnnre nytsemd er þesse / ad vier vort Lijferne ransókum og yferuegum / huórt þad samhliodar Lógmalenu / og tókum so fyrer hendur eitt Bodorded epter añad / og so opt sem vier finnum oss hafa geinged af Guds Lógmale / so opt þa heyrum vier Lógmalsins Bólvan ⁊ Guds Reide ⁊ Hefnd yfer oss.

Huad er hier til Rada? Hier er ecke vtan tveir Veiger / sa eine fyrer Avrvilnan / til eilijfs Dauda ⁊ Fyrerdæmningar / Eñ sa añar fyrer Nadareñar sto! til eilijfs

lijfs Lijfs og Blessanar/ þesse Naad ar-
stoll er Jesus Christus/ sem oss forlijkar
vid Gud Födur/ og giefur þad eilijfa
Lijf/ Þuiad huör hann truer a Jesum
Christum/ hañ ödlast fyrer hañ Synd-
aña fyrergiefning og Riettlæted/ j huör-
iu hañ jñgeingur til eilijfs Lijfs/ þuiad
Christus hefur vpp fyllt Lögmæled til
Riettlætis þm öllū/ sem a hañ trua.

Þesse Tru a Jesum Christum er vor
rar Sæluhialpar Grunduöllur/ sem vier
jatum j vorre Truargrein/ þar huör eiñ
Christeñ so seiger/ Eg true fyrergiefning
Syndaña/ þad er/ þo mijnar Synder sie
margar/ Guds Reide sie stor/ og Straff
og Pijna Syndaña hrædeleg/ þa true eg
þo sañarlega ad Syndernar fyrergiefast
fyrer Christi Dauda og Pijnu/ sa er mig ei
ad eins hreinsar og þuær af mijnū Syn-
dum/ med sijnu raudlitada Blode/ helld-
ur einnen til reiknar og leggur mier sitt
eiged Riettlæte/ so ad Lögmæled hefur
nu öngua Magt yfer mier/ til ad fordæ-
ma mig j nöckurn mata/ þui eg em ecke
vnder Lögmælenu/ helldr vnder Nadiñe

Þessa Tru ödlast nu Meñ af Heyrn
og Medtekningu Evangelij/ huört ad
framm

fram̄ sydur ollum Mönum̄ Naad i Jesu Christo/ fyrer eina stadfasta Tru/ so sem sa Heilage Augustinus eirnen kieñer/ Christus (seiger hñ) tok vorar Synder + giórde þær sijnar/ hañ tok + sitt Riettlæte/ + giórde þad vort Riettlæte/ Jtm̄ Cain sagde/ Mijn Synd er stærre enn Naadē/ Eñ Augustinus suarar/ Þu lyger Cain/ þuiad Naad Guds er myklu stærre Eñ Eymd allra syndugra Maña/ þetta er þad huad Johañes seiger/ Sia Guds Lamb sem burt tekur Heimsins Synder/ Item. Christus er Forlijkunen/ ecke fyrer vorar Synder ad eins/ helldur fyrer allar Heimsins Synder/ Þuilijk Trua hū forlætur sig alleina vpp a Jesu Christi hlydne og verdskulldan/ eñ ecke a nöckurn hlut annan/ huórke a Himne nie a Jórdu/ Vm huória Tru eg vil seirna meir fleira tala/ j þeim þridiā Lærdome.

## III.
## Vm þa Andlegu Nytsemd Lógmalsins.

Laugmalsins Nytsemd su hin Andlega hun hefur ad eins stad j hia þeim sim̄ trua a Jesum Christum/ og hafa feing=

 ed

ed fyrergiefning Syndanna/ fyrer Christi Dauda og Framestódu/ og eru nu ordner riettlaater/ j þui ad þeim til legst ✝ reiknast Jesu Christi Riettlæte/ Huar þesse Trua er sõn/ ✝ æn Hræsne/ þar er Mustere Heilags Anda/ huór ed Bæde verkar Truna j Mañsins Hiarta/ þa hañ heyrer Euangelium predikast/ og endurfæder Mañen/ og vpp vekur hann til þacklætis vid Gud/ so ad Madurenn asetur sier ad vera hlyden Gude/ og meir aktar Guds Vilia/ eñ allt þad añad j Heimenum er/ huórsu gott og æskeligt þad vera kañ/ ✝ hefur Truna alltÿd stadfasta/ ✝ eina goda Samuisku.

Nu fyrst þ sa sem truer/ vill Gude hlyden vera/ þa tekur hann Guds Lógmæl ad nÿiu sier fyrer Hendur/ og hefur þad so sem adra sanna Reglu sier fyrer Augum/ j þeim Verkum sem hann skal gióra/ edr ecke gióra/ so mÿked sem Guds Dyrkan áhrærer. Og eñ þo sa same Madur ecke kuñe Lógmæled vpp ad fylla/ þa er þo hañs Hlydne Gude þægelig/ þuiad hañ er frÿ fra Lógmælsins Bóluan/ og er vnder Nadeñe/ fyrer Christi skulld. Þuiad so seiger S. Palus/ Þeir

verda

verda ei fordæmder sem eru vti Christo/ sem ecke lifa epter Holldenu/ helldur epter Andanum / Og þesse Hlydne hun er ecke ad eins Gude þægelig (þui Gud af sijñe Fodurlegre Giæsku skipar þeim sem truer/ ad elska sig/og eirnen ad audsyna Naunganum Kiærleikan) helldur fyrer heiter Gud og eirnen launum þar fyrer/ so ad hañ vill noglega launa alla Velgiörninga/ Ja eirn Vatzdryckur er Mad ur giefur i Christi Nafne skal ei vera o launadur.

Hier til þa höfum vier nogleg Epterdæme allmargra Christiña Manna/ sem af Truñe hafa vered Gude hlydnger/ og hafa þar med ödlast bæde Andlega og Veralldlega Blessan. Enn þr/ sem seigiast trua/og hafa þo ei fyrersett sier Syndernar ad fordast/ helldur læta Fysn og Holldsins Jñblastur og Girnder sier rada/ þeir enu sömu ganga ecke i Abrahams Fotspor/ sem helldur villde sin eirka Son + Erfingia i hel slæ/helldur eñ ad giöra ecke Guds Bod og Bijfalning. Nu seiger sa Heilage Paulus/ Ad þeir sem trua/og vilia Nad ödlast/ so sem Abraham/þeir skulu andsyna þr

ra Aru med Hlydne vid Gud / huört ad
soddan Nad hefur þeim synt / ad hann
gaf sinn einka Son j Daudan fyrer þa.

Þad er eitt hrædeligt og fordæmit-
legt Argumentum og Mælrætke sem sum
er j framme hafa / og seigia. Vier verdū
vt af Nadinne fyrer TRVNA alleinasta
hialpleger og Sæluholpner / Þar fyrer
er ei þörf ad vier godverken giörū. Hun-
driu suarar S. Pall þeim: Þeirra Fyr-
erdæmning (seiger hann) er riett / edr mak-
leg / Ja / sannliga makleg / þuiad hier
jnne eru margar höfud Synder til sam-
ans Bundnar. Fyrst hæda þeir ad Gude.
Þar næst varpa þeir vnder Fætr sier þui
dyrmæta Blode Christi. Sijdan reka þr
fra sier þann Heilaga Anda / Framm eigis
linga þeir a sialfa sig. Hier ad auk leida
þeir allmarga fra Euangelijo med þrra
Hneyxlonum / ꝫ eru þeim tilefne til fyr-
erdæmningar.

1 Eg seige j fyrstu / þad þeir hæda
ad Gude / huör ed af oseiganlegre Vi-
kunseme villde þeim fra Syndonum ꝫ
Fyrerdæmingunne hialpad hafa. Ja / þr
eru lijker ohlydnum Börnum / sem fyrer
saker Oradþendne og Stratskapar / eru
af

af þeirra Forelldrum arflaus og vtlæg giörd/ Þessum syner Faderen vm siþder Náad/ og tekur þau aptur j Sætt + Vin skap/ þa er þau jdrast. Enn sem þau koma nu j Faudursins Hws/ þa taka þau til sina gömlu Osida/ m3 Pilltskap og skiemeligum Verkum/ hyra ecke vm sijns Födurs Vilia nie Bifalning/ helldr misbruka hans Födurlega Giæsku. Hu= ad kan̄ Faderen annad ad giöra hier til en̄ þ/ ad læta slijk ohlyden Börn koma vnder þan̄ skarpasta Rlett og Refsing sem þau forþienad hafa.

2 Þar næst þa troda þr vnder Fotū hier þad dyrmæta Blodeð Christi/ sem a Krossenū var vthellt til fyrergiefning= ar Syndan̄a/ meinande/ ad Christus ha= se þar fyrer vt giefed sitt Blod/ og wt riett sijnar Blodugar Hendur/ Bein + Ar= ma/ Ja/ og allan sin̄ Lijkama a Kross= ins Galga/ ad þeir mættu og skylldu vtrietta sijn Hiörtu/ Hendur og Fætur/ + lia allan sin̄ Lijkama til Ofrijkis/ O= riettinda/ Suika/ Falskleika og Vnder= hyggiu/ Snögt ad seigia/ til alls þss sin̄ þesse Böluadur Heimur + Holldsins Gir= nd kann epter ad beidast/ og seigia þo

 ei ad

ei ad ſijdur/ Chriſtus er miñ Frelſare/ a hñ true eg/ hia hiñ villda eg blÿfa et ꝛ.

Ja þeir ſem ſo eru ſiñader og ſlÿkt giöra/ eru ei olÿker einũ fordæðulegum Strÿds mañe/ ſa ed læſt þiona ſÿnum Herra/ af huórium hañ fær og ſo Laun og Peninga/ Eñ vnder nidre/ þa helldur hañ ſig til hans Fiandmans/ og giörer þad hönum þocknaſt.

Ad ſeigiaſt trua a Chriſtum/ ꝛ ſkæra ſig þar vt af/ enn fremia þo vondan og ſkiemeligan Lifnad/ huad er þad añad/ eñ ad tala þad fram med Muñenum/ ſem bæde Hiartad Mañſins/ og allur Lifnadur ber aptur og ſeiger þuert nei til? Gydingarner drömbudu vt af þui/ ad þeir være Guds Börn ꝛ Abrahams Sæde/ Enn huad ſagde Chriſtus þeim þar til? Þier erud (ſagde hann) af Diöflenum/ þier giöred hans Verk/ huad Abraham ecke giörde. So ſier þu nu ad þad er hrædeligt og böluanlegt/ ad hafa Chriſtum j Muñenum/ enn Ovin hans (Syndena) j Hiartanu/ og lia alla ſÿna Limu bæd jñra og ytra/ til ad þiona heñe/ Huad er ſlÿkt añad/ eñ ad troda Jeſu Chriſti Blod vnder Fotũ? Og

fyrer

fyrerlijta hans Dauda/sem hañ leid fyr-
er vorar Synder/ecke vppa þad/ad vi-
er skylldum nu frijlega syndga/helldur
vppa þad/ad Syndernar oss fyrergief-
ist/so ad vier hielldum hönum j Hiart-
anu/og værum hönum hlyduger/eñ af-
neitodum Dioflenum + öllum hans Ver-
kum/þ er Syndū + Löstum
3 Sömuleidis/Þeir sem falla ad ny-
iu vilianliga j Syndena/epter þad þeir
hafa heyrt Euangelium/og eru ordner
riettlæter fyrer Christi Verdskulldan/og
læta þar epter Holldsed Heimen og Di-
ofulen vid sig rada/þr enu sömu hrygg-
ia hañ Heilaga Anda/og reka hñ burt
af sijnu Hiarta/Eñ taka jñ j hans stad
Diofulsins Anda/og verda so hans Hei-
mile/lijka sem þr voru til forna.

Huad kiemur hier epter añad/enn þ
sem Christus seiger Matth. 12. Cap.
Luc. 11: Cap. Nær ohreiñ Ande gein-
gur vt af Mañenum/þa rasar hñ vm
þurra stade/leitar ad Huijld + fiñr ecke/
þa seiger hañ/vitia mun eg Hws mijns
aptur þadan eg vt for/Og þa hñ kiem-
ur/fiñur hñ Hwsed tomt/sopad + fag-
ad/þa fer hañ og tekur sio adra Anda

med ſier / þeir verre eru eñ hañ ſialfur / og þeir fara jnn og bwa þar / ſo verdur þeſſ Mans hid ſijdaſta verra enn þad fyrra. Hier af ma ſkilia / huad þad er / ad medtaka Guds Ord / og trua þui / ꝛ falla þar ſo herſilega fra / med Hiarta og ölln Framferde / og vtreka hañ Heilaga Anda af hans Heimile.

4 Framueigis / þa liuga þr hid jllmannligaſta a ſialfa ſig / ſem hroſa ſier vt af Truñe / eñ lifa þo vondſlega / þeir ſeigiaſt hafa þad þeir hafa ecke / ſo ſem Skialarar og Hools fuller Raups meñ plaga ad giöra / ſem j Muñenũ eru meſter / enn j Raun og Verki þeir allra minſtu. Þeſſa vantar þad / ad þeir vita ei / þad Gud hann ſier jnn allt j Hiartad eñ Meñerner ſia ad eins þad vtan til er / Gud hañ ſier Hiartad: J Muñenum eru Orden / enn j Hiartanu Lyge ſem fyrer Gude ecke dylſt / Þar fyrer vill Jacob Poſt. Ad Muñur og Hiarta Mannſins ſie eitt / ſo ad Verken ſamhliode þeirre Tru / ſem j Hiartanu ſeigeſt ad vera / So ſem merkia ma a Abrahams Epterdæme / huad oc fad / þa eru ſamhlioda Hiartad ꝛ ytre Verken / Sie Hiartad gott /

þa

þa ero Verken god / Ef Hiartad er jllt
so eru Verken jll: Ja / Þetta er þad sim̃
Christus meinar / Eitt gott Tre ber god
an Avǫxt. Hier ser þu nu klarlega / ad
þeir sem seigiast trua a Gud / enn hafa
eingen Verken god / huórsu þeir liuga
vppa sialfa sig / Ja / þeir eru ei olijker
þeim sem setur Koronu vppa sitt Hǫfud
† þikest þar fyrer vera eirn sañur Kon-
gur / huilijker hafa (sem Malshætturen
hliodar) christiña Maña Nafn / eñ ǫng-
va Rentu.

5 Hier ad auk / sa hann skærer sig af
Christo / heiter christen / er skijrdur / seig-
est trua a Gud / geingur til Sacrament-
is og lifer þo samt jlla / sa same snyr
ǫdrum fra Evangelio med siñe Hneyslan
og vondü Epterdæme / og er þeim Sǫk
og Tilefne til Glǫtunar. Pall Postule
seiger j fyrra Sendebrefe til Cor. 8. C.
Ad sa sem misbrukar sitt christeligt Fr-
else / j þm Hlutum sim̃ ei eru forbodner /
ǫdrum til asteytingar / sa hiñ same med
sijnum Vijsdome og Vanbrukan christe-
ligs Frelsis / fyrerkiemur sijnũ veyka Br-
odur / fyrer huǫrs skulld Christus daener
Hued myklu meire sǫk hefur þa sa / sim̃

med illum og daudlegum Syndum glefsur ødrum tilefne/ ad tala illa vm þad Heilaga Euangelium og þa christeliga Religionem. Paulus talar vm Gydingana/ ad søkum þeirra vonds Lijfernis hafe Guds Nafn spottad vered/ Rom. 2. C. Til Timoth. 6. Cap. þins fyrra Pistils/amiñer hañ þa truødu þienara/ ad þeir sie sijnum vantruødum Herrum hlydner/ so ad Guds Nafn og Lærdomur eige lasteſt: Eñ þ þess hattar Meñ skule koma a sijdøstu Døgum/ þad sama hefur hiñ Heilage Petur løngu ædur fyrer spæd j audrum Capitula þessa sama Pistils.

So sieum vier nu huad hrædeleg Synd þad er/ad fyrer koma ecke ad eins sier sialfum/helldur ad vera eirnen mørgum ødrum tilefne/til ad forsma Christi Euangelium/ þeim til eilijfrar Fyrerdæmningar/ Enn Guds Nafne og hans Lærdome til Løstunar.

Þar er eingen efe a/ ad marger af Tyrkium hata þar fyrer Christi Euangelium/ad þeir sia huørsu illa + herfeliga þr enu Christnu lifa. Saumuleidis eru þar allmarger af Papistum/ sem fyrer

fyrer þa skulld hafa og ofsækia Christi Euangelium/ ad þar eru so marger af þeim sem lataſt vera Euangelisker/ enn allfaer þeir sem lifa epter Euangelio. Huad skal Mañ vm þa seigia sem medtekeđ hafa hreinan Euangeliū Lærdom med oss/ a medal huórra ad marger eru veyker/ + hafa ecke grunduallad Euangeliū Lærdom j sijnu Hiarta? Sannlega marger af þeim taka til ad efa sig og seigia/ Pad gieck Betur til j Pauadomenum/ Meñ lifdu þa ei so agalauser og athugalauser/ j allre Osidseme + Syndum so sem nu lifa Meñ/ og skeyta þar fyrer ecke vm/ þott Pauans Lærdomur kome vpp aptur: Eñ huórier hafa hier skulld af/ adrer eñ þeir sem vera skylldu Lios og Leidtogarar fyrer ódrum/ + ættu epter Pals Ordum/ j óllum hlutū/ þad er/ med Ordum/ Verkum og óllum Lifnade ad pryda Euangelium + Lærdom Guds vors Frelsara.

Hier af meigū vier þessa Conclusionem edur Malsending giðra/ Þeir sem̄ trua a Jesum Christum/ þeir skulu hafa Guds Lógmal fyrer sier/ sem annan Speigel/ + hegda óllu sijnu Lijferne þar epter

epter / Gude til Lofs / sialfum þeim til Glede / og ödrum til Gagns og gods Epterdœmis / so Diöfulsins Verk meige eydeleggiast / enn Guds Verk og Vilie fram kuœmast / Gude til Lofs og Dyrdar / sem so nœdarsamlega hefur oss fyrer Truna Sæluhialplega giört / an vorrar Verdskulldanar og Verka / og hefur oss endursætt / vppa þad vier skylldum lifa og fram ganga j godum Verkum / so sem seiger S. Pall Eph. 2: Cap.

III.

# Um þann Þridia Lærdomenn.

Sa þridie Lærdomur er vt af vorum Herra Jesu Christo / huörn ef nockur riettelega þecker / sa finnur eilijft Lijf / sem hann seiger sialfur / Johannes 17. Cap. Þetta er þad eilijfa Lijf / ad þeir þecke þig sannan Gud / og Jesum ad vera Christum sem þu hefur vtsent. Þar Herran Jesus spyr nu Gydingana ad / huad þim virdest vm Christum / þa vill hann hier med giefa þeim Tilefne til ad ransaka Ritningina / so þeir mætte af henne læra huad þeir skylldu hafa og hallda vt af

Christo

Christo. Þeir spurdu hañ ad Lögmäl-
enu/ ad þeir giærte hañ veitt j Ordum/
og hönum fyrerkomed/Eñ hañ spyr þa
ad Christo/so ad hñ þar med feinge þm
vid hialpad. Sia hier huörsu oliJk a-
stundan þad huörer höfdu/ Christur og
Pharisearner.

Nu viliū vier heyra Christi Spur-
ning og Gydingaña Andsuar/ Christus
seiger/ Huad liJst ydur vm Christum?
Huörs Son hañ er? Þeir suörudu hönū/
Dauids Son/ Þuiad þeir vissu vt af
þui Fyrerheite sem skiede til Dauids/ad
Christus ætte ad fædast af Epterkomen-
dum Dauids. Enn þetta Andsuar full-
nægde ecke til ad þeckia Christum riette-
liga/ so þad nog være til Saluhialpar
Þui sette Christus hier fram adra spur-
ning/ af huörre þeir mattu vel fa lios-
are Vnderstödu og Skilning vm Christ-
um/og seiger so/ Huar fyrer kallar Da-
uid hañ þa einn Herra j Andanum/ og
seiger/Drotten sagde til mijns Drottins/
Sit mier til hægre Handar. Nu ef Chr-
istur hann er hans Drotten/ þui kallast
hañ þa Sonur hans? Sem hefde Jesus
so talad/ Faderen er jafnan ædre eñ So-
G vj. nuren

nuren / og Synenum ber ad vera vnder-
giefnum sijnum Födur / Og eiñ Herra ed:
Lanardrotten er yfer Þienaranum / og
Þienaren er vndergiefen sijnum Herra.
Nu medkieñer David ad Christus er hñs
Drotten og Herra / huórium hónum ber
hlyden ad vera.

Hefdu Gydingarner hier huxad vm
Heilaga Skript / huór ed vppa Christum
hliodar / og giætt ad þui huad Christus
ætte ad hafast ad hier j Heime / þa hef-
du þeir vt af Ritninguñe matt giefa Þet-
ta Andsuar / Christus er Davids Son vp-
pa Mañdomsins vegna / Eñ GUDS So-
nur vegna sijns Guddoms / Mañdomsins
vegna er hann miñe / Enn Guddomsins
vegna er hañ Drotten yfer óllum Drott-
num / og Kongur yfer óllum Kongum /
fyrer huórium David ma audmykia sig /
og honum til Fota falla / Ad sóñu / vid
urkienna / þad hann hafe af hónum / og
fyrer hañ alleinasta Syndañа fyrergief-
ning / Riettlæted / ꝛ Saluhialpena.

Vt af þessum Christo talar David
og seiger j hinum 51. Psal. Stócktu a
mig Jsóp / þa mun eg verda hreiñ / Þuo
þu mig / þa mun eg verda huijtare enn
Sniór

Snior. Item/ J þeim 130. Psal. Ef þu giæter/ Drotten/ ad Syndonum/ þa kann eingen ad standast fyrer þier/ Enn þia þier er Forlÿkunen. Vid þessa Forlÿkan vnderstendur Dauid hier Christū/ sem af hans Sæde skyllde fædast epter Mañdomenum/ Eñ vegna sinnar Gudsdomlegrar Natturu þa skyllde hañ vera sannur Gud.

Þannen villde nu Christus med sinnē Spurningu vid hialpa Gydingonum/ so þr mættu fa saññan Skilning a Christo/ huar vtÿ þad eilÿfa Lÿf er folged (sem ey adur sagda) og sa Saluhialpar vÿsdomur/ vm huórn Pall Postule talar j fyrra Pistile til Cor. 1. Cap. Seigande/ Fyrst þad Veróllden þeckte ecke Gud j Guds Vÿsdome/ þ er/ j Guds dasamlegum Verkum/ sem hann hafde giórt fyrer Vÿsdom/ þad er/ fyrst Mañeskian ecke þeckte Gud/ fyrer þ Vit + þa Skyn semd sem Mannenum er natturlega jnn giefen af Gude og medfædd/ þa virtest Gude þad rædlegt/ ad gióra þa Truadu Saluholpna fyrer heimsklega Predikan Epter þui/ ad Gydingar leitudu Teikns/ Eñ Grisker Vÿsdoms/ þa predikū vier

 seiger

(seiger Postulen) Christum krossfestañ/ huar af Gydingar hneyrlest/ En Grisker hallda fyrer Heimsku/ En þeim sem trua/ bæde Judum + Greckium/ predikū vier Christum ad vera Guds Magt/ og Guds Vijsdom.

Hier giörer S. Pall greinar mun j mille Guds Vijsdoms + Mañaña Vijsku/ Þetta reiknast ei Vijsdomur fyrer Mönonū/ ad Gud skyllde læta siñ Son þurfa ad taka Mañdom/ og lijda þañ harda og bitra Dauda fyrer Meñena/ helldur syhnest þetta darlegt/ Þuiad Gud (meinar Mannlig Vijska) hann var full mættugur til/ ad hialpa Mañeskiuñe j einhuörn añan mæta/ En Guds Vijsdomur var ei so/ helldur myklu ödru vijs/ Ad vijsu/ þar þuert a mot/ þuiad huad fyrer Mönonum er Heimska/ þad er fyrer Gude Vijsdomur + Vijska.

Ad vier mættum þetta enn glöggslegar vnder standa/ þa skulum vier fyrst leggia þeñañ Grunduöll/ En þo so sie/ þad Gud kuñe og giete giört huad hañ vill (ef vier alijtum hans Almætte) þa villde hañ þo eckert giöra/ vtan þad sim vel

vel somer hñs Guddómlega Maiestatis Riettlæte og Dyrd/ þad er/ huad riett er/og j allan mata Lofleqt/ so ad aller Einglar/ Menn og Dioflar/ og allar adrar Skiepnur/ kynne med Sañleika ad seigia/ Dyrd sie Gude j hæstum Hæ-dum/ z cl.

Nær eirn Kongr edur añar Yferuallds Herra/ tekur einum j fra + giefur ódrum/ þa giórer hañ oriett þeim eina/ eñ er milldur og godgiarn hinum ódrū. So er og hættad vm Gud/ Hefde hann med siñe Magt hialpad Mañeskiuñe/ þa hefde hañ teked fra siñu Rietlæte/ og til lagt siñe Miyskun / þad er/ hann hefde þa hallad Riettlæte siñu / Eñ so ad þesser fiorer Kraptar (sem huórra Gud er ecke Gud) sem eru/ Almætte/ Riettlæte / Myskun / og Vijsdomur/ være vid lijka Hefd og Magt/ þa fañ Gud þad Rad / ad hañ villde lata siñ Son taka Mañlega Natturu/ so vier kyñum fyrer hañ ad verda Saluhialpleger.

Hefde nu Gud synt sitt Almætte + Riettlæte/ og ecke giætt siñar Myskunar og Vijsdoms/ þa hefde hañ fordæmt

G viij. alla

alla Meñ eilijflega/sökum þess/ad m3 Syndum höfdu aller stygt Guds eilijfa Maiestatis Vellde/ ꝛ voru aller þar fyrer skulldbundner til eilijfs Dauda/ Hefde hann þetta giört/ þa mætte eingen añad seigia/ eñ þad Gud hefde synt sitt Almætte og Riettlæte/ Eñ huad hefde þa orded af hans Myskun? Huar være þa hans Vijsdomur? Mañeskian hefde orded fyrerdæmd æn allrar Vægdar/ og Guds Vijsdómur/ sem Mañen skapade epter siñe eigen Mynd/ til eilijfrar Saluhialpar/ hefde til onytis vered.

Nu vppa þad/ ad ei halladest Guds Riettlæte/ þa villde Gud/ Ad so sem ein Mañeskia færde alla adra j Fall ꝛ Fordæming/ so skyllde ꝛ ein Mañeskia Bitala ꝛ borga fyrer allra Maña Synder/ so eingen mætte seigia/ ad Guds Riettlæte være j nockurn mata hallad/ Hu er med og eirnen Gud auglyser siijna Myskunseme/ so ad hañ gaf siñ einka Son j Daudan/ ad huör a hañ truer/ hñ skal ei glatast/ helldur hafa eilijft Lijf. Hier ma og merkia hans Almætte/ ad hañ hefur med sijns Sonar Dauda yfer vñed ꝛ sigrad Daudan/ Heluijte/ ꝛ Syndena

dera / ꝛ alla Diöfulsins Makt. Visdom hans ma hier og merkia / þad hañ fyrer siñ Son/ sem er hĳns natturleg Mynd fra Eilĳfd / vppa nytt endurnyiar siӱna Lĳking i oss / ꝛ giefur aptur eilĳft Lĳf og Saluhialp / sem vier ad önduerdu vorū af hĳns Vĳsdome til skapader. Og allt saman þetta er hier vnder komed / Ef vier truum a Sonen / þui so seiger Johannes Baptista / Huör sem truer a Sonen hañ hefur þad eilĳfa Lĳf / Enn huör sem ecke truer a Sonin / sa skal ei sia Lĳfed / helldur blĳfur Guds Reide yfer hönum.

Þesse er sa Saluhialpar Vĳsdomur / sem aller Spameñ / Christus / Postular ner og þeirra Epterkomendur hafa kient / og eñ a þessum Deige kieña aller goder Lærefedur / huörn Vĳsdom / þr enn Vĳsu þessarar Verølldar (sem Luckan hefur a Handhnöckum og leikur vid) fyrerlĳta og forsmaa / þm sialfum til eilĳfs Skada ꝛ Fyrerdæmingar.

Nu med þui ad allur Vĳsdomur Christeligrar Kirkiu / er grunduallade vppa einum þessum Manne Jesu Christö / þa vil eg framsetia og liosliga vtleggia

ia/huad vier eigum ad vita vm hann og hallda/ so framt sem vier vilium fyrer hn̄ Saluhialpleger verda/ Og eru hier fierdeilis sex Hôfudpartar z Greiner m3 þeirra Andsuare z Vtskyringu af Guds Orde/ sin̄ Men̄ skulu grandlega Merkia

I.

Ad Jesus Mariu Son/ sie sa fyrer heitne Messias/ þad er Christus.

II.

Ad þesse Jesus sie sañur Gud / Og huør Naudsyn þar var til.

III.

Ad þesse Jesus sie sañur Madur/ z fyrer huøria Grein þ hlaut so ad vera.

IIII.

Ad þesse Jesus sie ein Persona i tueimur Naatturum / z ecke tuær Personur i tueimur Naatturum/ z huar fyrer þ hlaut so ad vera.

V.

Ad þesse Jesus hann sie Heimsins Frelsare/ og huørnen/ edur med huør ium hætte.

Huør-

Huørnen vier kuñum ad verda Hlut takarar Jesu Christi Velgiørninga/ og fyrer hañ ad ødlast þad eilijfa Lijf.

I.

## Hiñ þyrste Partur og Høfud grein vt af Christo.

ÞAd fyrsta og framsette/ ꝛ þad huøꝛium Mañe er skylldugt ad vita vt af Christo/ þad er/ad Jesus Jomfru Mariu Sonur fæddur j Betlehem/ hann sie sa Christus og Frelsare/ sem Gud hefꝛ fyrerheited vorum fyrstum Forelldrum/ Adam og Euo/ huad aller Meñ christner fullkomlega trua ꝛ medkieña/ j Postulegre Truarjatningu þar vier so seigiũ/ Eg true a Jesum Christum Guds eingieten Son vorn Drotten/þann gieten var af Helgum Anda/fæddur af Mariu Meyiu/Pijndur vnder Pilato/ ꝛ ec. Þesse vor Trua hun hefur þeñan Grũdvøll/huar vppa hun er bygd ꝛ stadfest/ so ad Port Heluijtis kuña þar ecke j mote ad standa.

 Sa

Sa er vissulega æn alls efa sañur Messias/ vm huorn allar Spamanna Spasagner verda samhlioda/og sa all-eina sem pad allt vppa hliodar/ og med Sañleika ma aþ seigiast/ sem fordum var fyrer sagt vt aþ Messia/ fyrer Muñ Guds Heilagra Spamañanna/ sem var Moses og adrer fleire.

Vm Jesū Jomfru Mariu Son vet da aller Spameñerner samhlioda/ og hønum alleina enn ønguum ødrum hæ-fer og hlyder/ og ma med Sañleika vt aþ hønum seigiast/allt huad ad fyrr var sagt vm Messiam / af þeim Heilogu Spamønum/Mose og ødrum fleirum/ þar fyrer þa er þesse Jesus Mariu Son/alleinasta/z eingen añar/sa rieitt og sañe Messias/ þ er Christus Heims-ins Frelsare z Saluhialpare.

Þetta er nu Christeligrar Kirkiu Fun-damentum + Grunduöllur / j allan mata stødugur og oraskanlegur / vm huorn Augustinus talar / Þetta er Grunduöll-ur

ur vorrar Truar/ad allt þad sem Christum heþur hent/þa var þad ꝺdur af Spamoñonnm fyrer sagt.

Hier vm þreytte Paulus Spurningaer vid þa j Tessaloniu Borg/ j þria Daga/ sem þar stendur j Giörningabok Postu. 17. Cap. Og sañade/ ad Jesus ver Christus/ huór ed deyia skyllde og vpp rijsa epter Ritninguñe. Lucas seiger og j fyrr nefndum Capitula. Ad mar ger edlaborner Meñ ⁊ Kuiñur hafe mz teked Euangelium med storre Hiartans Girnd/ ⁊ hefd: rãñsakad Skriptena dag lega/ huórt þad være so sem fyrer þeim predikadest/ Þad er/ þeir baru saman/ huad vm Christum skrifad var j Moses Bokum og Spamañaña/ vid þad sem Jesum Mariu Son hafdi hent/ og fundu þad var allt samhliodande/ So lesum vier ⁊ j Gudspiöllũ /huar þar seigest nockud af Jesu/ þa seiger/ ad ꝧ var allt so ꝺdur fyrer spꝺd.

Hugleidum Tijman hans Fꝺdingar/ Staden/ hans Moder/ hans Jardteikner/ Gydingaña Opacklꝺte/ Heidingiaña Vmuendan/ hans Dauda og Pijnu/ hans Vppristu/ Vppstigning/ Heilags Anda

Vtsending a Huytasunudag / Hugleidum Luckn og Framgang christeligrar Kirkiu / Ofsokner heñar / og Osamþycke j Christneñe / og allt þetta fiñum vier lön-gu adur fyrer spaad / af Guds Heilögum Spaamönum / fiögur hundrud Aarum / fyrr eñ Christus fæddest i Betlehem / hu-ar vm fleira skrifad stendur j minne Vt-leggingu yfer 44. Davids Psal. Eñ er hier ad eins stuttlega vppteiknad / so ad goder christner Meñ bere saman þ gam-la Testamentum / þad er Spaameñena / vid þad nyia sem hliodar vppa Jesu Christi Lijfsögu / huör samjafnan miög stadfester vora Tru j mote Gydingum og ödrum Gudlöstörum / j mote Tyrkium sem fra Truñe eru fallner / og j mote öll-um ödrum Afgudadyrkörum / Ad sönnu eirnen / j mote vorum eigen Skilninge / huör ei gietur vnderstaded edur skiled mecktugu Guds Giörninga / sem Paulus seiger / Holldleg Maneskia / kañ ecke ad skilia þ / sem Gude til kiemur.

Þar fyrer eigum vier vora Skynse-me ad hafa j Taume / og giefa oss fagna vnder Guds hialpsamlega Ord / og giefa Gude þa Dyrd / og Æru / ad hañ er vijs-are

are enn allar Skiepnur / og allt þad hũ sagt + lofad hefur / þad er hönum mögulegt ad hallda / Enn þo þad synest ödru vijs edur ómögulegt fyrer vorre Skynseme.

Nöckur vijs Madr var sa ed so sagde / Truan og Mañleg Skynseme hafa sijn a mille Strijd og Kappsama Barattu / So þar er huört ödru a mote / huörke vill vndan ödru lꝋta / fyrr eñ þ eina / hefur annars Augu vtstunged. Nu hefur Truan sijn Augu + sijna Syn vt af Guds Orde / og þeim Heilaga Anda. Mañleg Skynseme hefur sijn Augu og sijna Syn vt af holldlegum Skilninge. Hier skal nu huör Madr vm hyxa / ad stadfesta sijna Tru mz Heilagre Skriptt / og Hiartgroiñe Bꝋn til Guds / So Truã ad eins hallde siñe Syn / j þm Hlutum sem til Sꝋluhialpar heyra / og fae med öllu blindad þañ holldlega Skilning / so ad hañ eige drage Mañen fra þui Sꝋluhialpar Liose (þad er) fra vorum Herra Jesu Christo / vorũ einka Sꝋluhialpara og Frelsara.

Þetta er nu þad fyrsta sem oss aliggur ad vita vm Christum / huörn eg

 bid

Bid af öllu Hiarta/ ad hañ vpplyse oss
mz sijnum Helga Anda/ + vardveite oss
j sijnum Sañleika Amen.

II.

## Sa añar Partur og Høfud-grein/ vt af Herranum Christo.

Pad annad sem vier eigum ad vita vt af Christo vorum medalgöngu Mañe og Frelsara/ Pad er þetta/ Ad vier tru um ad hañ sie sannur Gud/ og fyrer huøria Grein ad þad var naudsynlegt/ þad hann einn Gud vera skyllde. Eñ þt ra Beuijsast med fiorum merkelegum og obrigdanlegum Biuijsingum.

Su fyrsta er + kiem: af Guds Orde/ j huöriu Christus nefnest Gud. Þar næst eru hans Guddomlegar Jardteikner. J þridia lage su tilbærelig Lotning og Akall allra Skiepna sem Christo veitist. Pad fiorda/ er Medkieñing allra christinna Manna.

Fyrsta Beuijsing.

Ad vor Medalgöngu madur + Frelsare sie eirn sañur eilijfur og Almættugur Gud/ þad audsynest j fyrstu Grein/ med

med liosum og berum Ordum Heilagrar Ritningar. Esai. 54. Cap. Seiger so/ Hns Nafn er Jehoua Zebaoth/ Pad er Drottenn Allsheriar/ og þiñ Frelsare sa Heilage j Jsrael/ hañ skal nefnast Gud yfer allt Jardrijke. Jtem/ 23. Cap. Þetta er þad Nafn sem hñ skal heita/ GVD/ sa oss riettlæta giörer. J hinu 68. Psal. GVD er hans Nafn/Gledied ydur fyrer hns Auglite. Johañes Euangelista seiger/ 1. Cap. J vpphafe var Ord/ og Orded var hia Gude/ og Gud var þad Ord. Hier kallar hañ Christu GVDZ ORD/ þuiad Guds Ord hliod ar vppa hañ. Til Rom. 9. Cap. Af huórium Christus er fæddr epter Holldenu/ huór ad er GVD yfer óllum Hlutum/ad eilijfu Blessadur/ Joh. 5. Cap. fyrra Pistils seiger so/ Vier erum j þeim sañа sem er hans Son Jesus Christus/ Þsse er sañur Gud og þad eilijfa Lijf. Hier med er merkianda/ ad so opt sem Christus kallast Guds einglieten Sonur/ so opt + þar med biuñsast/ ad hñ sie sañur Gud med Fódurnum og þeim Heilaga Anda/ sem eru þriar Personur j Guddomlegre Natturu. Þar fyrer medkieñu vier Chr-

er Meñ / ad Þar er eirn Gud og þriar Personur / epter þui sem Gud hefur sig openberad.

Aunnur Beuijsing.

Þar næst j añan mæta / stadfesta þid sama hns Guddomleg verk / ad vor Frelsare sie sannur Gud. Þetta er alleinasta Guds verk / ad skapa alla Hlute / Skiepnum Lijf og Anda ad giefa / ad hafa Magt yfer öllum Hlutum / ad vppreisa Dauda vt af eigē Krapte / ad sia j Mañanna Hiörtu / ad Bænheyra þær jnstu Mañsins Girnder og Anduarpaner / ad vera vnder eins j allra Christiña Maña Hiörtum / ad vera j öllum Stødum nalægur. Aull þesse Guddomleg verk þa leggiast Jesu Christo til j Heilagre Ritningu / huar af obrigdanlega stadfestest og Beuijsast / ad hñ sie sañur og natturlegur Gud. Þesse Beuijsing grunduallast / j þessare Reglu / Þa af nöckrū med Sañleika seigest / edur hönum til legst / huad nöckurs Natturu ad eingeingu til heyrer / þa hlyter su Nattura þeim enum sama til ad leggiast.

Þridia Beuijsing.

Þridia slags Vitnis b urdur / huar med

med þad bjuþſaſt ad vor Frelſare ſie ſañ ur Gud/ þa er ſu Dyrd og Vegſemd ſiñ hönum verdur til lögd og veitt j Heilag re Ritningu. Gud ſeiger hia Spamañ-enum/ Eg vil önguñ giefa miña Dyrd/ þ er/ þ Lof/ þa dyrkan + Guddomlega Æru ſem mier einñ til heyrer. Item/ Eg er ſa Bruñur af huörium allt gott vpp kiemur/ Item/ Eg em ſa alleina huör ed Syndernar fyrergiefur/ Item: Eg em alleina hañ ſem Mañen giörer Riett latan og Heilagan. Item/ Eg em alleina Mannſins Saluhialpare/ A mig ſkal huör og einn Trua/ Mig akalla/ Mig ſkulu allar Skiepnur/ Himen + Jörd/ Meñ og Einglar vegſama. Ad vijſu aller þeir j Heluijte eru/ þa ſkulu beygia ſijn Knie fyrer mier/ Slijk Æra + Dyrd heyrer Gude alleina til/ og hun giefſt + til legſt vorum Herra Jeſu Chriſto j Hei-lagre Ritningu. Paulus ſeiger j fyrra Piſtle til Cor. 1. Cap. Chriſtus er oſſ giefen af Gude/ til Vijsdoms/ Riettlæ-tis/ Helganar/ og Endurlauſnar/ ſo ad huör ſem ſier hroſar/ hann hroſe ſier j Drottne/ þad er j Jeſu Chriſto.

Til Hebreos 1. Cap. Stendur ſo/

Aller Guds Einglar skulu til bidia hañ (þad er) Jesum Christum. Stephanus seiger j Giörninga Bok Postulaña / 7: Cap. Drotten Jesu / medtak þu minn Anda / Paulus j ödrum Pistle til Tessa· 2. Cap. Seiger so. Vor Herra Jesus Christus sialfur / og Gud vor Fader siñ elskade oss / og gaf oss eilijfa Huggan ꝛ eina goda Von j Nꝯdeñe / hñ hugge ydar Hiörtu og stadfeste ydur j allre Polenmæde ꝛ godum Verkum. Pꝯll Postule j öllum sijnum Sendebrefum ꝛ Pistlū / oskar þeim hann til skrifar Nꝯdar af vorum Herra Jesu Christo / J þeim sama Pistle til Cor. 13. Cap. Seiger hñ / Vors Herra Jesu Christi Nꝯd / ꝛ Guds Födurs Kiærleike / og Hluttekning þess hins Heilaga Anda sie med ydur öllum saman.

Fiorda Beuijsing.

Sa fiorda slags Vitnisburdur / hvar med ad stadfestist / þ vor Herra Christus sie sañur Gud / Er su samhliodande medkieñing christelegrar Kirkiu / sem verid hefur alla tijma / ꝛ sañleg Reynsla / j allra Maña Hiörtum / þeirra sem hafa eina saña og lifande Tru a vorn Drotten ꝛ

en og Saluhialpara Jesum Christum.

Athanasius j sine Truar Jatningu han skrifar so.

Þesse er su almeneliga TRV/ ad vier jatum einn Gud j Þrenningu/ og þrenan j Einingu/ so ad vier et saman blondum Personunum/ Eige helldr sundr skilium Verune.

Þuied önnur er Persona Fødursins/ en önnur Sonarins/ og önnur þess Heilaga Anda.

En same er Guddomur Fødursins/ Sonarins/ og Heilags Anda/ Jafn j Dyrd/ ✝ eilijfu Vellde.

Slijkur sem Faderen er/ so er ✝ Sonuren/ so er ✝ sa Heilage Ande.

Faderen er ecke skapadur/ Sonurenn er ecke skapadur/ Heilagur Ande er og ecke skapadur.

Faderen er ovmrædeligur/ Sonurenn er ovmrædelegur/ Heilagur Ande er ovmrædelegur.

Faderen er eilijfur/ Sonuren er eilijfur/ Heilagur Ande er eilijfur/ Þo eru þar ecke þrijr Eilijfer/ helldr einn eilijfr.

Lijka sem ad þar eru ecke þrijr skapader/ eige þrijr ovmrædeleger/ helldur einn

oſkapadur / og einn omæleligur.

Sömuleidis er Faderen Almættug-
ur / Sonuren Almættugur / Heilagur An-
de Almattugur.

Þo eru þar ecke þrÿr Almættuger /
helldur einn Almættugur.

Sö er Faderenn Gud / Sonurenn
Gud / Heilagur Ande Gud / Og eru þo
ecke þrÿr Guder / helldr eiñ Gud.

So er Fadereñ Drotten / Sonurenn
Drottenn / og ſa Heilage Ande Drot-
ten / og eru þo ecke þrÿr Drottnar / hell
dur eiñ Drotten.

Þuiad lÿka ſem Chriſteligur Sañ-
leikr þuingar oſſ ad vidurkieña ſierhuör
ia Perſonu fyrer ſig ad vera einn Gud
Og Drotten / So fyrerbydur oſſ ſu chri-
ſteliga Trua / ad nefna þria Gude edur
Drottna.

Faderen er af önguum giördur / edr
ſkapadr / edur fæddur.

Sonuren er af Födurnum alleina /
ecke giördr nie ſkapadur / helldur fæddr.

Heilagur Ande er af Födur + Syne
ecke giördur nie ſkapadur / helldur fram
farande.

Þar fyrer þa er þar einn Fader / einn
ecke

ecke þrÿr Fedur/ Eiñ Sonur/ eñ ei þrÿr Syner/eirn Heilagur Ande/ eñ ecke þrÿr Helger Andar.

Og j þßare Þreñingu er eckert ödru fyrr edur ſÿdara/ eckert ödru ædra edur lægra/ helldr eru allar þær þriar Perſonur ſameiliÿfar + ſamjafnar.

Þuilÿk Jatning chriſteligrar Kirkiu er eirnen j þeirre Niceniſko Credo / er vier köllum Meſſu Credo/ Þar ſtendr ſo/ Eg true á eirn Gud/ Födur Almættugan/ Skapara Himens og Jardar/ og allra ſyneligra + oſyneligra Hluta/ Og á eirn Drottin Jeſum Chriſtum/ Guds eingieten Son/ ſem er fæddur af Födurnum/ fyrer allar Allder/ Gud af Gude/ Lios af Lioſe/ eirn ſañur Gud af ſöñum Gude/ fæddur eñ ei ſkapadur/ ſem er eirn rar vnderſtödu med Födurnum/ fyrer hvörn aller Hluter eru giörder:

Þetta hid ſama ſtadfeſter og ſo/ ſa chriſtelige Lofsöngur ſem j langa tÿma hefur j chriſteligre Kirkiu vered tÿdkadur/ Dyrd ſie Födur og Syne og Heilögum Anda/ ſo ſem hun var ad vpphafe/ og er eñ nu og jafnan/ og vm allar Allder Allda Amen.

Su Griska og Latinska Kirkia/ hefur alla tijma til eirnrar eilijfrar sam þyckeligrar Medkieñingar sunged þessa Bæn a Grisku/ Kyrie eleison/ Drotten vertu oss lijknsamur/ Christe eleison/ Christe vertu oss lijknsam:/Kyrie eleison Drotten vertu oss lijknsamur/Med þess are Bæn vidurkieña þeir enn Christnu/ eiñ Gud ✝ þriar Personur.

Sömuleidis þa vita aller riettchrist ner Meñ af þeirra eigen Reynslu/ þad/ ad Jesus Christus hañ er eiñ sannur Almættugur Gud/ Þuiad j þeirra Bæna Akalle fiña þeir hans Nalægd og Gud domlegan Krapt/ huar med hann þa huggar/og iñsiglar Sañleik Euangelij i þeirra Hiörtum/og giefur þeim Diörsung ad ganga j mot Daudanum/Syndenne/Heluijte/Diöflenum/og öllū hans Limum / so sem vier lesa meigum af mörgum Pijslarvottum/a medal huörra ad voru Kuiñur og Jomfrur/og allmarger adrer/huörier myklu fusare voru til ad læta sig Lijflata fyrer Christi Nafns skulld/ hellour eñ ad hafa yfersliotanlega þessa Heims Vegsemd/Vellyst/Rijkdom ✝ Glede. Huadan kom þ=

Af

Af Jesu Christi kröptugre Nalægd / sin̄ ad synde j þm̄ sijna Guddomlega Mag͛t og Krapt / Þenan̄ sama Jesum Christum höfum vier eirnen / sem oss vill vera nalægur / so framt sem vier han̄ akóllū med stódugu Hiarta / og Gudlegum̄ Asetninge.

Hier hef eg nu lioslega andsynt / þ͛ vor Frelsare Jesus Christus han̄ er einn sañur Gud. Enn nu er hugleidanda / huǫ͛ Naudsyn þar var til / ad sa sin̄ Man̄ kyned skyllde endurleysa / hn̄ skyllde vera ein̄ sañur Almættugur Gud.

Tuær eru saker og greiner til / huar fyrer vor Frelsare og Sæluhialpare hlaut ad vera eirn sañur og Almættugur Gud. Su fyrsta / Ad allt þad hid jlla sem Mañsins Natturu plægade / þ͛ var þyngra og fleira og meira / en̄ þad kyñe af nöckre Skiepnu burt ad takast.

Su öñur / Ad eingen skiepna af Gude sköpud var so megtug / og styrk / ad hn̄ kyñe allt þad hid goda aptur ad vtuega og giefa / sem Mañeskian hafde misst fyrer Syndena.

Hier vm þessar tuær Greiner vil eg nöckud tala / so ad vier kyñum þess hell-

J : dur

bur ad medkieña Velgiörninga Christi/ i
lofa og vegsama hann þar fyrer med
þackläte alla vora Lijfdaga.

Su pyrre Greinen.

1 Allt þad illa sem Mañliga Nat-
turu þuingade/ þ ma skynia og merkia
af þessū fiorum Hlutū/ sem er:

Syndarennar Þunge.

Riettläte gudlegrar Reide.

Daudans Magt og Halld.

Diöfulsins Grimd og Heruñkings-
skapur.

Þunge i Byrde Syndaña var stær-
re og meire enn þad nockur Skiepna
huörke Meñ nie Einglar kyñe henne ad
vallda/edur heñar þunga ad bera/ Þui
ad Syndareñar Skulld og hennar Laun
voru eilijf og ovmrædeleg/ med huörre
Synd modgad var þad oendanlega og
oseiganlega Goda/ sem er sialfur Gud/
huörs Maiestas og Tignar vellde med
Synd vorra fyrstu Forelldra forsmæd i
vanhiedrad og fyrerlited var/ Og þat
fyrer þa hlaut þesse Synd annad huört
ad straffast med eilijfre Pijnu/ epter Gu-
ds Riettlætis Dome/ Ellegar þar hla-
ut ad verda einhuör fullnadar Boot og
Bit-

Bitalingur fyrer Syndena / so ad Guds Riettlæte vel anægde.

Enn vppa þad ad þesse fullnædar Boot fyrer Syndena / mætte anægia / og vera eilijflega kröptug / þa kuñe hun ei ad skie af nöckre Skiepnu / Ja / Og ei helldur þott allar Skiepnur til samans kiæme / Þar fyrer la þar Magt a / ad hñ sem skyllde afma Syndena / og fyrer hana ætte ad Bitala / ad sa hiñ same være eirn sañur Gud / Þui Gud alleina / med þui hañ er oendanlegur / so kañ hañ all eina ad eyda og yfervinña þad hid jlla og oendanlega / sem er Synden.

2 Riettlæti Gudlegrar Reide vtkrafde og heimte / ad Pijnan og Söken yrde jafnar. Nu fyrst ad Sök edur Skulld Mañsins var oseiganliga stor / vid Gud / so var og Pijnan obærelig og Reiden oseiganleg / huöria Reide Guds eingen Skiepna kuñe ad bera / edur ad stilla / Þar fyrer la Makt a / ad sa Medalgangare sem Guds Reide stilla skyllde / ad hann være Almættugr Gud.

Vm þessa Reide talar S. Pall til Rom. 1. Cap. Guds Reide / seiger hañ openberast af Himnum ofan / yfer allt

Ogudlegt Athæfe Mañaña. Enn þad/ ad þesse Reide hun kunne ei fyrer vtan Medalgóngu mañ j burt takast/ þ kieñ er Johañ.Baptista/ þar hañ so seiger/ Huór hañ truer ecke a Sonen/hann skal ecke sia Lÿfed/helldur blÿf: Guds Reide yfer hónum:

J Syndeñe / huórre Gud reidest/þar dragast til samans þesser hrædeliger Hluter/sem hier vpp reiknast.

1 Guds Maiestatis og Dyrdar velldis Fyrerlytning.
2 Motþroanlegt/Trads j mote Guds Lógmæle og Byfalningu.
3 Suiuirdeleg Saurgã Guds Myndar (epter huórre Mañeskian skópud er)
4 Diófulsins Hlydne.
5 Fordæduſamlegt Frafall j fra Gude og til Diófulsins.
6 Og hier ad auk omæleligur og olÿd anlegur Metnadur mote Gude/ Epter þui þa ad so margt og jllt er med Syndeñe saman bunded / Og þetta allt fylger heñe/ þa er eiñgen Vndur/ þott Guds Reide sie stor og hrædelig yfer Syndonum.

Þessa Guds Reide ma Madr merkia ꝛ

kia + athuga/vt af Straff: vorra fyrstu Forelldra/sem a þan var lagt fyrer Syndena/og af þui Straffe sem sijdan er komed yfer allt Mankyned/Þetta ma og sia af Guds Hotonum/+ af allskyns Eymdum og Motgange sem Mankyned vnder liggur/ af Diőfulsins Grimd + Vallde yfer Mőnonum/Jőrdunne og j Sionum/af Þyngd og eilijfd oendanligra Pijsla/ huőriar þeir munu aller lijda sem ecke vnnuernda sier til Guds fyrer Truna a Jesum Christum/ Hier ad auk ma þetta skilia af þui dyrmæta Verde sem Jesus Christus hefur fyrer Syndena bitalad. Huőr er hier so blindur ad hañ ei siae/ ad þad var omőgulegt ad stilla Guds Reide/ fyrer vtan þann Medalgőngu mañ/ sem Almættugur være/ og þar med eirn sañur Gud?

3
Daudans Magt var stærre/ enn þ þun kyñe af nőckre Skiepnu yfer ad viñast/ so ad sa vijsinda Mad: Plinius segde(þo falsklega)Ad ei være Gude mőgulegt nőckurn af Dauda vpp ad vekia. Enn nu af þui ad þad ætte ad vera hid hellsta Verk og Embætte vors Medalgőngu mans/ ad yfervinña Daudan/ og

 ad

ad eyda hñs Krapte/ þa var full Naud
syn ad ha ñ hefde Guddomlega Magt/
og være eiñ sannur Gud/ med huörre
Makt hañ kynne bæde Dauðañ yfer ad
viña/ og Lijfed ad giefa/ Þuiad Gude
eiñum er eckert omögulegt/sem Gabriel
sagde til Jomfru Mariu.

4. Grimd Diöfulsins ꝛ hans Valld/
vnder huöriu Mañkyned lꝏ fanged/atte
eirnen yferuuned ad verda af þeim sem
Medalgöngu madur Guds og Mañaña
vera skyllde. Eñ huörsu þetta omögu-
legt er Mañdomlegre Natturu Diöful-
en ad yferuiña/þad kieña oss allar Heim
sins Historiur og Sagnabækur/ og sier
huör Mañeskia fornemur þ med sialfre
sier. Hier fyrer þa lꝏ þar stor Magt a/
ad vor Medalgangare være Gud/ huör
med sinne eigen Magt og Vallde/giæte
Diöfulsins Grimd yferstijged. Hier vt af
ma klarlega merkia og vnderstanda/hu-
ör Naudsyn þar vid lꝏ ad vor Frelsare
sa allt þetta hid vonda skyllde a burt
taka/ være eiñ Almattugr Gud.

Hier er og eirnen vm huxanda/ hui-
lijkan Kiærleika þad Gud eilijfur Fad-
er/ Sonur/ og Heilagr Ande hafa hast
til

til Mañkynsins. Faderen hlÿfde ecke sÿ-
num Syne/ helldur liet hañ lÿda Pÿnu
og Dauda/ so vier yrdum frialser fra
Þrre eilÿfre Pÿnu. Sonnren var sÿnum
Fødur hlyden/tok Guds Reide vppa sig
og leid þar fyrer þann beyska Krossins
Dauda. Sa Helge Ande vill bua j Hiör
tum allra þeirra sem sier snua til Guds/
og vill vpp vekia þa/ til ad giöra þad
sem Gudi er þægelegt. Slÿkur ofeigan
legur Guds Rijkeleike/ hñ skal vpp kuei-
kia j oss Truna/ Bæna akalled/ + Þack-
læted vid Gud/og stadfesta vor Hiörtu/
so ad þau ei hrædest Daudans Ogn nie
Diöfulsins Grimd/nie neitt þad sem oss
vill leida j fra Þrre Sæluhialpar von/
sem vier høfum j vorum elskuliga Frel-
sara/ + Drottne Jesu Christo.

Su önnur Greinen.

Su öñur Grein huar fyrer vor Frel-
sare hlaut ad vera eiñ sannur Gud/ er
þesse/ Ad allar Skiepnur voru ofueyk-
ar/ og formættu ecke ad afreka edur ap
tur ad giefa Mañeskiuñe allt þad goda
sem hun fyrer Syndena mist hafde. Allt
þetta hid goda/ ma vel j einu Orde jñe
binda/ sem er GVDS NAD/ Eñ þo

 heyrer

heyrer þar margt annad fleira til/so ad þesse Guds Mynd vpp aptur vid riett⸗ est j oss/ huad S. Pall vpp telur 1. Cap. hins fyrra Pistils til Cor. Þar hn̄ so seiger/Christur er oss fæddr af Gude til Vÿsdoms/Riettlætis/Helgunar/og til Endurlausnar/so ad huör hn̄ hrosar sier sa skal hrosa sier j Drottne.

Þessar fiorar Gæfr/huar med Gu⸗ ds Mynd j oss endurnyiast og vpp aptur reisest/ þær kuñe eingen Skiepna oss ad giefa/So sin̄ nu vilium vier huad epter annad fa ad heyra.

I.

J fyrstu/ þa ætte vor Medalgang⸗ are ad giefa oss Vÿsdom/ecke slijkan sin̄ Heimsins Vÿsdomur er/ fyrer huörs ein⸗ da ad Mann ma komast/ Helldur þann Vÿsdom sem folgen er og hulen fyrer magtar Mönum þessarar Verralldar/ huör ed af Zacharia nefnest/Ad vera sa luhialpar Skilningur/ j Syndaña fyrer giefningu/fyrer Guds Millde og Myskun. Vm þeñan Vÿsdom talar Johañ. Baptista/hia Joh 1. Cap. Seigande/ Eingen hefr nöckurn tijma Gud sienan/ helldur Sonurin sem er j Fødursins Skaute

Skaute han̄ hef: þ fyrer oss openberad.
Nu mætte einhuör seigia/ Kuñe Gud ecke fyrer sijna Eingla edur Spamen̄ ad openbera oss þeñan Vijsdom?

Þar til suara eg so/ Sitthuört er/ ad vnderuijsa ed: kieña ödrum Vijsdom sem einn Þienare/ Ellegar ad vera Vijsdomuren sialf:/ þad er/ ad vera j Mañenum Kröpt ugur/ so ad Mañsins Hiarta take til sijn þan̄ sama Sæluhialpar Lærdom: Mañsins Ord ganga j Eyrun inn/ Eñ Guds Sonur sem er Guds Vijsdomur/ han̄ vpp fyller Mañsins Sal + Hugskot m3 Sælhialpareñar Vijsdom. Ja/ Mannsins Hliod hliomar ad eins fyrer Lijkamans Eyrum/ eñ Guds Sonar Hliod geingur j giegnum allar Hiartans Rætur. Ord Spamañaña og annara Guds Orda Þienara/ eru þa ad eins avarttarsäleg/ þa Gud/ vpp lætr Mañsins Hiarta/ + jnn giefur þad saña Vijsdoms Sæde þar jn̄/ Huad öngre Skiepnu er mögulegt ad giöra: Hier af er nu augliost/ ad vor medalgöngu Madur/ sa so kröptugan Vijsdom giefa skyllde/ han̄ hlaut ad vera sañr Gud.

II.
Jv.

Þar

Þar næst/ atte vor Medalgöngu madur/ ad vtuega oss eitt fullkomlegt Riettlæte/. Þuiad/ æn fullkomligs Riettlætis kan eingen fram̄ fyrer Guds Aug=lit ad ganga. Enn nu kun̄e eingen/ vtan Gud alleina/ ad giefa og vtuega þ Riettlæte sem so være fullkomlegt ad öllum dygdð/ og være einum ꝛ sierhuörium al=giört ꝛ noglegt Riettlæte fyrer Gude/ hellst af þui ad þessara tueggia hluta þarf Man̄eskien vid/ ef hun skal full=komlega Riettlæt vera fyrer Gude.

Fyrst þarf hun þess vid/ ad hū verde frij fyrer Ranglæte ꝛ Synd/ sem aller Men̄ hingad i Heimen med sier flytia.

Þad an̄ad/ ad hen̄e giefen verde Guds Lögmæls algiörd Hlydne / huör Hlydne edur vppfylling Lögmælsins/ ad er þad Riettlæte sem fyrer Gude duger.

Eckert af þessum tueimur Hlutum/ þa kunne vor Medalgöngu madur ad hafa veitt edur afrekad/ hefde hū ecke vered eirn Almættugur Gud: Vm þad fyrra ræddū eg ædr fyrre/ þar talad var vm Syndan̄a Byrde/ ꝛ Riettlæte Guds=legrar Reide. Vm þad an̄ad/ sem er/ ad fa og ödlast þad Riettlæte sem Guds

Lög=

